# Andleger Psalmar og Kvæde,

Sem sa Gudhrædde Keñemann og Ypparlega Þiood-Skalld

Sal. Sr.

## Hallgrijmur Petursson

kveded hefur;

Og nu i Eitt eru samañtekner, til Gudrækilegrar Brwkunar og Froodleiks, þeim er nema vilia.

Seliast Jnbundner 28. Sk.

Þryckter ad Hoolum i Hialltadal
Af Marcuse Þorlaakssyne,
1797.



## Goode Lesare!

Formaalañ sem her er bakefter settur læt eg standa Ostertañ, efter þessa Bæklings Utgaafu 1770, þvi vona marger seu sem ecke vilia missa hañ vegna Skalldsins Liifs og Æfe-Søgu.

Sigurdur Steffans Son.
Superintend Hoola St.



# Til Lesarans.

Listkunnar og Nattturunnar Gaafur, þvi yppar legre þær eru i siaalfum ser, og sijdur af vand legum Mønnum forskulldadar; til þess stærra Athyglis, gudrækelegrar Medferdar og audmiwkara Packlætes vid Herra Nattturunnar og alls goods Uppsprettu skulldbinda þær oss :. Sen þær ei rettelega brukadar, stefne þær ei til þess Takmarks hvar fyrer ver erum skapader, endurleyster og helgader, kunna þær andvelldlega leida Menn afvega til Forsoomunnar sinna Skylldu-Verka, og verda jafnvel sem Sverd i Ods Manns Hende. Pessar Guds Gaafur þar a moot, þa Hræsnislaus Guds Otte stioornar þeim, þa þær leidast, ladast og endurlijfgast af þeim sanna Vitskunnar og Openbernnarennar Anda, hrijfast fra þvi Jardneska i Hæderdnar, hefiast yfer medfædt Atgiørfe og setia a sijna þann Stimpil er vitne ei einunges um Guds serdeilis Hylle vid þa, helldur og þeirra Vidleitne i þvi epter Megne ad efla Guds Dijrd, sijna og Naungans Velferd. Hia slijkum af Guds Anda upplijstu og helgudu Skilnings og Hugvits Gaafum, hefur ei Guds Oransakanleg Milldi sett suma þa, er þetta Land byggia og byggt hafa, þeir ser verdskulldad hafa gooda Stiett og mikid Traust i Trwnne. Gud vere þess eilijflega lof-

adur! Medal añara og margra Þviliikra, i hverra Gaafum verdugt er Meñ priisi Gud, hverra Miñing bliifur i Blessan, og byrjar ad Lofi se hallded hiaa ræktarsömum Efterkomurum, þar þad Andriika Þioodskalld Sr. HALLGRYMUR Peturs Son. Eg hefe ad undañförnu reyut til, ad safna og til Þryckingar ad underbwa nockra þess Saluga Guds Maňs Psalma og Kvedlinga, lijka wtgefed stutt Agrip hañs Æfisögu, efter þeim Aholldum haft hefe; Vilian og Vidburdena hafa marger gooder Meñ vel vyrdt, og siidañ hid seinasta Upplag skede, þessa Bæklings, hafa nockrer orded til þess, med allre Astundan, bæde ad utvega mer fleyre Psalma og Kvedlinga, sem Sr. Hallgr. eru eignader, og meddeila mer Efterrettingar, sem vidkoma Æfi hañs. Hinar merkelegustu þesskyns hefe eg ad þacka hañs Hææruverdugheit. Biskupenum i Skaalhollte Hr. Finne Joonssyne, þeim margfrooda Guds Maňe, Proofastenum Sr. Vigfwsa Joonssyne i Hijtar-Dal og Æruverdugum Sr. Þorvarde Audunarsyne i Saurbæ. A so froodra og vigtugra Maña Vitnisburdum, ciñig a cñ nu tilverande Skiölum og Skilriikium er þa byggt efterfylgiande Jñtak ur Æfesögu Saal. Sr. Hallgriims Peturssonar.

Sr. Sveinbiörn Þordarson og Þordiisar Fiñbogadoottur, var medal Fyrertaks Presta i Hoola-Stifte i siñe Tiid; Þa hañ var Diakn,

fieck Joon Biskup Vilhialmsson honum sitt fullkomed Umbod i Þyngeyar-Sijslu, sem Bref, þar um giort, sijna Dagen i Paaska-Viku 1431. sijner. Ared 1463. var hañ orden Officialis, og sama Embætte hafde hañ 1483. eñ deyde 1490. effter þad hañ hafde hallded Mæðlastad i 22. Ar. Sr. Sveinbiørn atte marg Børn (Aññalar segia 50). Medal hverra telst Sigurdur (Fader Helgu, er Barna-Mooder var Jons Biskups Arasonar), Hallgrijmur sem Fader var (1) Sr. Þorlaks at Stadarbacka, Fødur Sr. Gudbrands Biskups (2) Sr. Einars at Utskaalum, hvers Syner voru (a). Sr. Gudmundur, Skoolameistare at Hoolum, sijdan Prestur á Stadarstad og Prófastur i Snæfells Sijslu, og (b) Sr. Bergsveiñ á Utskaalum. 3, Sr. Gamaliels, Fødur Sr. Biarna fyrst Skoolameistara á Hoolum og sijdan Prests ad Grenjadarstad; Sr. Gissurar og Þorkels Hoola Raadsmaños. 4, Þorkiels, er Fader var (a) Sr. Ødds, á Hofe i Vopnafyrde, Fødur Biarna á Bustarfelle, Sijslumaños i Mwla-Þijnge, og (b) Olafs, Fødur Olafs Skoolameistara á Hoolum og sijdañ Prests ad Grijms-Twngum, hvar hañ miste Embætted 5. Sr. Gissurar at Stadarbacka, Fødur Sr. Peturs i Vestmaña-Eyum, hvers Syner voru þeir Sr. Gissur, Sr. Arngrijmur og Gisle, er myrdtur var i Eyunum 1692. 6. Gudmundur, er Fader var (a)

)o( Hall-

Hallgrijms i Grof a Hofdaftrond, Fodur Peturs, Fod: Sr HALLGRYMS, og (b) Þorbiargar Kv:nu Sr. Jons Sveinssonar i Hollte i Onundarfyrde, Profasts i Vestara Parte Isafiardar-Sijslu og hailf-Broodur Mag. Brinjulfs Biskups i Skalholte. 7. Gudnyar, er Mooder var Sr. Þorkiels Jvarssonar i Eydolum. Mooder Sr. Hallgrijms er nefnd Solveig, eñ Sistkin hañs voru, (a) Pall, hañs Syner Hallur og Gudmundur Fader Mad. Gudrunar, sem nu er a Hrannum i Fliootum, (b) Gudrijdur, af hverre komner eru Profastarner Sr. Hallgrijmur Elldjarnsson a Greniadarstad, Sr. Erlendur Jonsson a Hrafnagile, og marger fleyre.

Petur Gudmundsson var, saker Ættar, tekiñ Hijngad ad Hoolum af Hr. Gudbrande, og var her Hrijngiare: Honum filgde Sonur hanns Hallgrijmur, fæddur 1611. eda þar um Bil; hefur hañ lært her ad lesa og skrifa, og sem margfroode Logmañ Pall Vidal. skrifar (in Recensu Scriptorum & Poetarum Seculi XVI & XVII.) hañ hafi nockurn Tijma i Skoola vered, og lagt þar fyrsta Grundvoll Booklegra Menta. Tiaest ad Hallgrijmur hafi mist Skoolañ, eñ fyrer einhverra Rannunga siña Tilhlutan, sigllt til Gluckstadar og komest sijdañ til Kaupmañahafnar, hvar hañ hafe þioonad

hia nockrum Jarnsmid, og ad Mag. Briniulfsur hafe fenged hañ þadañ lausañ; añadhvert 1631. þa hañ i añad siñ reyste hedañ, efter hüñs tveggia Ara Hervern, edur (hvad lijklegra sijnest *) Are fijdar, adur hañ iñgeck Con. rectoratum i Rois-Keldu, og flutt so Mail hañs, ad hañ var iñtekeñ i Vor Frwe Skoola i Kaupenhafn: Took Hallgrijmur þar slijkum Framförum, ad 1636. var hañ komeñ i (so kallada) Meistara-Lectiu. Fyrer gudrækelega Umsiorgun og Orlæte Kongs Christians Fiorda, konuu 38.

)o( Persoon-

* Reisu-Psalm, er hefur 16. Vers ogso byriar: "Jeg byria Reysu mijn Jesu i Nafne þijn, Fiñ eg i 3. Psalma-Kverum m. fc. med þessare Fyrerskrift: "Reisu-Psalmur Sr. Hallgrijms Peturssonar, kvedeñ i Kaupenhafn Ared 1632: þa hañ villde reisa þadañ til Islands" Se nu þetta rett, hefur hañ fra Jarnsmidnum losast, lijklega Ared 1632. og þar hañ hafde i sijnu Fødurlande lært ad lesa og skrifa, samt i Hoola Skoola numed nockud i Latinu, so hefur Mag. Briniulfe sijnst Hallgrijme gagnvænlegast, ad hañ byriade aftur med siñ Lærdoom, enkum þar hañ hefur funded hia hønum gøodar Nææmis Gaafur; þvi þad sijnest fiætre Lijkendum, ad med øllu O-lærdur Handverks-Drengur hefde helldr til Menta, eñ añars Handverks, settur vered.

Persónur til Kaupenhafnar fra Tyrkium, af Foolke þvi hernumed var og hiedañ af Lande flutt 1627. Eñ þar þetta Foolk skyllde litted eda eckert i Dönsku, þurfte þad med þvi være einhvör Islendskur fengen, sem styrkte þad i þess Christeñdoome; var þess vegna Hallgrijmur fengeñ ad lesa og tala fyrer þvi Guds Ord. Medal þessa wtleysta Folks var Gudriidur Simonsdootter (er sogd gift hafe vered Eynulfe nockrum, og hallded ædur til i Stackagerde i Vestmañeyum) til hverrar hañ feck þañ Astar-Þocka, ad Vored 1637, þa þetta wnandugä Foolk skyllde reysa fra Danmork, yfirgaf Hallgrijmur Skoolañ og foor med Gudriide wt hingad. Komu han wt i Keblavijk, og var Hallgrijmur þa Þwlsmadur hia Dönskum um Sumared; eñ efter þeirra Burtsigling hafde hañ hverge Hæle; Gudriidur Ol Barn i ytre Niardvijk hia Grijme Bergssyne, eñ þa taldest so til, ad Madur heñar var dandur; ædur eñ huñ took vid Berienu, so Broted reiknadest Fridlulist. Snerest þa so fyrer Hallgrijme, ad hañ vard aðhangandi Arna a ytra-Hoolmi, Syni Gisla Þordar sonar Logmañs, so hañ skant Skiooli yfir hañ þad efter var Sumarsins, og reyndest hönum sijdañ hiñ meste Hialpar-Madur.

Skömu efter þetta mun Hallgrijmur hafa giptst Gudriide, og sijdañ i sierstu Fatæktuppihallded sig einhverstadar a Sudurnesium, (i Kote nockru

nockrn, Baulu-Fæte þa kollndu, hefe eg fied skrifad, hvar um þo eckert viist ütlykta ),aňadhvert at Vegum Arna edur i Hvalsness-Hverfe, under Skioole Bondans þar Þorleifs Jonssonar, til þess hañ, epter Underlage Biskups Bryniolfs * (þvi bægt var um þær Münder ad fa Presta til Hvalsness-Sookna, þar sa Roomur hefur aleiged, ad Torfi Erlendsson, þa Herads Doomare i Gullbriŋgu Siisslu, og adrer Stoor-Bockar i Hvalsness Sooknum, hefdu ei lated Presta sijna ofdætt), kañske og fyrer Aeggian og Tillögur Arna eda Þorleifs, foor til Skalholts og vijgdest 1644 til Hvalsness Sookna, var og Aared epter iñstefndur i Synodi Rettẽ at Alþinge, og underskrifar Protocollen, eins lijka Hvalsness Visitatiu 1646. og þa bioo hañ a Hvalsnese, og mun þar hafa bued, so lenge sem hañ var þar Prestur, hvad eg meina vered hafa 6. eda 7. Ar, þvi 1650, deyde Sr. Olafur Bødvarsson Prestr i Saurbæ a Hvalfiardar-Strønd,

)4(  er

* Her um skrifar Logmadur Vidalin þañig: Postqvam Sacerdos Ecclesiæ Hvalsnesensis, in qva parœcia habitavit Hallgrimus, ad Ecclesiam Grindvicensem vocaretur, Hallgrimo nuncius ab Episcopo Mag. Brynulfo venit cum epistola, qvæ Skalholtum venire jussit,

er hañ Stad hafde hallded fra 1623 eñ Sr. Hallgrijme var veittur Staduren 8.April.1651. af Matthias Goffrinssyne, er Umbods Madur var Hofuds-Mañsins Henriks Bielte, og took vid Stadnum i Fardogum sama Ar, af Eckiu Sr. Olafs, Gudrijde Rafns Doottur: Stendr og i Saurbæar Kyrkiu Visitatin, giørdre af M. Brynjulfe 1661. D.9.Sept.ad Sr.Hallgrijmur hafe Stadeñ halldid a Ellefta Ar. Enn Eckia Sr. Olafs mun hafa noted Nadar Arsins, ef ei epter Kongs-Brefenu um Presta Eckna Nadar-Ar, af 3. Maij 1650. Pa epter Ordinantiunnar Hlioodan, og a heñe grundudu Synodali Mag. Briniulfs, af 1639. Efter bad nu Sr. Hallgrijmur var komeñ ad Saurbæ vegnade honum þar sæmelega til þess 1662. hañ 15. Augusti, þa um Roottina uppbrunñu øll Presta-Kalsins iñañ-Bæar Hws og miked af Bws-Hlutum: Komst allt Foolk af, utañ adkomande Foru-Kall og sagdr forn i Skape Olafur Pauls-Son, Sonar Son Sr.Bodvars Eyulfssonar i Saurbæ. Marger gooder Meñ urdu þa til ad hialpa Sr. Hallgrijme, so Staduren vard uppbygdur sama Hausti. Faum Arum epter, nefnelega 1665. eda 1666. vard hañ Lijkþrear, enn foor þo til Alþijnges þetta sijdara Ar, og urdu marger til ad giøra honum gott; Eñ Ared 1667. þreyngde so ad honum Hollds-Veikeñ, ad hañ taus ser fyrer Capellan Sr. Torfa Jonsson fraa

Reik-

Reykhollte,og gaf upp vid han̄ hælfan̄ Staden̄, en̄ bioo sialfur a ødrum Helminge Stadarins. Sr. Torfi deyde num Sumarmaal 1668. En̄ efter han̄ kom Sr. Han̄es Biørnsson, sem adur hafde Prestur vered i Ferinbacka Þijngum, og bioo han̄,asamt Sr. Hallgrime,i Saurbæ hid fyrsta Aared, en̄ took vid Stad og Kyrkiu 1669. Foor fram̄ Afhendingen̄ þan̄ 5. Maij, en̄ var stadfest af Biskupe þan̄ 8. sama Mꝗnadar. Med Stadnum afhendte og Sr. Hallgrimur Jarder-nar Katanes, Høfda og Oss-Parten̄, en̄ hiellt efter Ferstiklu, Hrafna-Biørgum og Stadar-Tꝗnga. Sama Aar flutte Sr. Hallgrimur sig ad Kalastødum,hvar hn̄ bioo 2. Aar,og siidan̄ ad Ferstiklu, hvar han̄ bioo til Dauda-Dags. Nu þo Sr. Hallgrimur være orden̄ veikur og komen̄ fra Saurbæ,var han̄ þo um̄ þessar Munder og lenge fram̄ efter a Footum, og nockurnvegen̄ Ferda fær, þvi bæde Anno 1668. reiste han̄ til Alþinges, og var þa i Synodo, og 1669. er han̄ eirnen̄ a Alþinge, og underskrifar med ødrum 22. Stifteſins Prestum audmiwka Bæn þeirra til Mag. Bryniulfs ad hallda vid Biskups Embætted framveges. Hin siidurstu Missere vard han̄ Karar-Madur og nærre blindur, en̄ bar þo sin̄ þwnga Veikleika med Polen̄mæde og Orkte i hønum marga Andriika og Hiartnæma Psalma. Ad Lyktum, þa han̄ var Sextugur ad Alldre, endudust hans Strijds-Dagar, fyrer

 Saly-

Saluhialplegan Afgang,sem skede epter Vetur-Nætur,edur þan 27. Octobris 1674.og var jardadur fyrer framan midiar Kyrkiu-Dyr i Saurbæ,þan 31. sama Maanadar,en nu er sagt Leg-hans se ad mestu Leite inan Kyrkiu,þar hun hefur sijdan vered leingd fram. Ad ytra Alyte var han stoor og ei lidlega voxen, dockur a Hair og Brun, engen Radd-Madur, en hvors dag-lega skiemten og gladsijna, an Vidhafnar Til-breitnis, lidugur og Ordheppen i Kvedskap, Audrijkur og Ordhagur Predikare, velskiliande Donsku,Þijsku,Latinu og sitt Moodur-Maal. Born Sr. Hallgrims og Gudrijdar doou flest oll ung: Eitt þeirra hiet Steinun, sem vard hallfs Fioorda Ars, hveria sagt er han hafe ser-deilis kregad vegna Nauns og Gaufna, er strax lictu sig i Lioos hia heñe. Anad Eyulfur, er giftest Þoru Dootur Gudmundar Narfasonar a Halse i Kioos, og Gudrunar ellstu Orms Dootur fra Eyum; Þeirra Born, (a) Magnus, Lioosnede Prentverkinu i Skalholte,sigldê og giftest Utanlands; Og (b) Gudrun, er giftist Þorleifi,Syne Jons nockurs Jndridasonar; Gudmundur er og talen Sonur Sr.Hallgrims, mun hafa daaed Ungur og Oqvæntur, þar ei er geted hans Afkomenda. Gudrijdur var, efter Dauda Sr. Hallgrims, hia Syne sijnum Eyulfe, er bioo a Ferstiklu epter Fodur sin,til þess han doo 1679. a sijns Alldurs Are Fertugasta

og

og ødru, eñ eftir hüs Danda foor hün ad Saurbæ til Sr. Haññesar; og deydi þar 1682. Ari yngri, eñ hailsu Nijrœd, og grafiñ 20. Dec. hvar eftir hun siaalf fœdd 1598. og gift vera Sr. Hallgrimi þa hana skorti Vetur a Fertugan.

Eftirfilgir med faam Ordum, ad miñast a þan Skrif, sem eftir þeñañ Guds Mañ Sr. Hallgrim liggia, og hønum almeñelega egnud eru. J sundurlausri Rœdu hefur hañ samanskrifad: Diarium Christianum, edur Dagiega Jdkun af øllum Drottiñs Dags Verkum, med Samburdi Guds Tiju Bodorda vid Skøpunar Verkinn og Minningu Nafnsins Jesu. Liet hann þeñañ Bækling wt fra ser gauga 1660. Einig Sio Gudrœkilegar Umþeinkingar, edur Eintal christins Mañs vid sialfañ sig, hvorn Dag i Vikuñi Kvølld og Morgna; Og hefur hañ bæda þessa Bæklinga dediceraḋ Eggert Biørnssyni a Skardi a Skardsstrønd, Syßlumañi i Bardastrandar Syßlu, og eru þeir nockrum siñum prentadir. Ut af Diario hefur kvedid Psalma, sa velgafadi Keñimañ Sr. Jon Sigmundsson; eñ Viku Paunkunum hefur i Psalma sniwed Sr. Eyrikur Hallsson i Høfda. Hiaa mer eru Viku Bænir Sr. Hallgrimi egnadar, er vel mættu filgia þessum Bæklingum,

 ef

ek Menn fyrir vijst vissu þær væru Verk Sr. Hallgrijms og Oafbakadar. Þessi Guds Madr hefur einig Commenterad yfir nockrar Vijsur ur Vorum Forn-Sogum, einkum Sogu Olafs Kongs Triggva Sonar; og þo einhvorium þiki þad hans Verk ei hid fullkomnasta, þa er adgætandi, auk þess ver erum allir Menn, og vornm Ofullkomleglcika filgir jafnan einhvør Annmarki, ad vera mun Sr. Hallgrimur hafi ei gefid ser Stundir, eda ei haft þær, til ad hallda afram med sama Vanda-Verk, og skiliast so vid þad, ad grandskignustu Menn gætu engin Mis-Smijdi a sied: Løgmadur Vidalin, vel tilfallinn Doomari i greindu Efni, skrifar þannig her umm l. c. "Commentarium etiam reliqvit in nonnulla veterum Poemata, qvæ Historiæ Olai Triggonis f. inserta sunt, in qvo laudabilem etiam operam præstitisse videtur, pleraqve enim feliciter eruit, haud scio an omnia, glaciem certe fregit maximæ difficultatis, stravitqve ad cætera viam; et dolendum, qvod tam pauca idgenus poemata tractaverit." J Bundenne Rædu hefur Sal. Sr. Hallgrijmur miklu fleyra giørt, og serhvad af þvi med þeirri Snilld og Ageæti utfært, ad hann

fyrer

fyrir laungu hef: forþenad eitt hid ypparsta Sæti medal þessa Lands Hǫfud-Skallda; þar hann med føgrum og hagkvæmum Ordum, i lidugasta Kvedskap, ꝏn Fordilldar og Affara-Snids, framsetr sijna velgrundada Þanka um þvilijkt Efni, sem oftast snertir hiartnæmmsta Atridi vorrar Trwar, christilegt Mañana Framferdi og þeirra Framfarir i audlegum Efnum. Eitt hid ypparsta- og uppbyggilegasta Verk, sem i Liodum hefur samid verid, og i þessu Landi utgengid, eru hañs 50. Psalmar wt af Pijnu og Dauda Drottins vors Jesu Christi med Textans wtskijringu. Og so sem þeir høndla um hid huggunarrijkasta Efni, og iñibinda i ser Merg og Kiarna vors Christiñdooms; so hefur hañ mest ꝏstunded ad vanda þa, og vijst nockra Ara Tijma til þess brwkad, sumir segia Tiju(og vænast her til Vitnisburdar Sr. Hañesar Biørnssonar, hvorium her um mætti nockurnveginn kuñugt vera)adrir færra; þetta sitt agæta Verk fullkomnadi hñ 1660. sm sijnir Formꝏli og Approbatio Sr. Jons Jonssonar a Melum a sialfann Øsku-Dag, edur 7. Martii, þess Ars; þad sijnir og Dedicatio til Christinar Jonsdottur i Einars-Nesi og Helgu Arnadottur i Hijtardal, daterud 5. Maji næsta Ar: mer þikir og lijklegt su Tilgata, ad hañ hafi ei leingi lꝏtid undandragast, ad sijna Psalmana sijnumvelgiørda-

Maña i Biskupi Brinjulsi, helldur jafnvel fyrstum Maña, og undireins offrerad þa Dootter hans, so sin hȧ og i Martio a sama Ari gaf þa og tilsendi Ragnhilldi, Arnadootitur i Kalldadarnesi, hvert Autographum Prosasturin Sr. Vigfus i Hijtardal skrifar sig i Hondum hafa haft med Formaala Sr. Joons. Su fyrsta Edition þessara Psalma wtkom 1666. a Hoolum, hverki good ne fullkomiñ, þar medal añars vantudu 2. Vers i þañ 15. Psalm og þad 3. i þeim 8. Psalmi. Su besta Edition meinast hin fioorda i Skaalhollti 1690. Þessir Psalmar hafa ad vijsu 15. sinnum þricktir verid, og þad med Citatis Biblicis 1704. og hefur Editor Biskup Mag. Biorn Þorleifs Son viliad lagfæra þa i tveim Stodum. (nefnilega þad 18. Vers þess 14. Psalms, og hid 12. V. i þeim 16. Psal.) Og þo Biskupin Mag. Biorn hafi giort þessa Umbreiting i bestu Meining, þa lagdist þad ei so wt fyrir honnum, og hefur þvi ei heñi filgt verid i sijdari Editionibus; Miklu framar hafa nockrir merkilegir Meñ añad hvert reynt til ad snwa þeim i framandi Twngumaal, eda mz Predikunum wt af þeim viliad þeirra Iñtak lioosara giora fyrir Almwga; hver Fyrirtekt ad vijsu lofleg er, þo Psalmarner sialfer framsetie skiliañlega, þo i færre Ordum, Pioodskallds ins Þanka. A latinsk Vers hafa giort Tilraun ad snwa nockrum þessum Psalmum Biskupiñ Mag. Vidalin, eitt

eitt hid besta Latinu-Skalld her a Landi hefur verid, Broodir hañs Þoordur og Sal. Jon Þorkelsson, nockur Ar, Rector i Skalholts Skoola. Gudmundur, Sonur Sr. Gudmundar Joons (lærda) Sonar, Gafumadur og Skalld sæmilegt (er þenti lengi hia þeñar Majestæt Sophiæ Amaliæ og vard heñar Foveti i Laallandi allt til heñar Dauda 1685. eñ bioo þar eftir i Ditmersken stutta Stund, siidañ i Gluchstad, og lifdi viist til Ann. 1688) byrjadi ad ytleggia þessa Passiu Psalma a Þijdsku, enn hvort hañ hefur tilendst ad fullkomna þad sitt Aform, er mer ad vijsu O-hoost.

Ut af þessum Passiu Psalmum hafa samantekid 50. Hwss-Lestra þeir Æruverdugu Gafu-Meñ Sr. Gudmundur Isleifsson, Proofastur i Bardastrandar Siisslu og seinast Prestur a Ingiallds-Hooli, Sr. Jon Sigmundsson, hvers adur er getid, Sr. Vigfws Joonsson i Stod, fyrir nockrum Arum siidañ Sajladur, Sr. Jon Jonsson, siidast Prestur til Stadar-Hools og Hools Safnada, hvers Verk þryckt er a Hoolum 1766. og ein Esa fleyri. Þad er og merkilegt, ad þessir Passiu Psalmar eru ei einasta, eg hafdi nær sagt, i hverju Hwsi her a Landi ydkadir, helldur og hefur þeirra verdugu Hroosi a Lopt halldid medal framandi Þiooda sa Nafnfrægi Historiographus Regius Þormodur T.

S. in

S. in Serie R. & D. D. L. I. Cap. II. er þo sonur var Syslumañs Torfa Erlends s. Mootstodu-Mañs Sr. Hallgrijms; og Capitain Magnus Saal. Arason hafdi þa giarnañ a ser, og funduſt a honum daudum, þa hañ drucknadi vid Hrapps-Ey a Breida-Fyrdi 19. Jan. 1728. og hvad meira er, ad Magnus virdti so Minning Sr. Hallgrijms, ad hañ aſsetti ser ad innkaupa Lijk-Stein yfir hañ med latinſkri Inſkription, [*] og ſetia fyrir nedañ hana þau 5. ſijdurſtu Vers þeſs 25. Paſſiu Pſalms, ſnorud af honum a latinſt Liodmæli. Her ad auk heſur Saal. Sr. Hallgrimur orkt 1656. Pſalma wt af fyrri Samuelis Book, og af þeirri ſijdare

* Þeſſi Inſcription hliodar þañig, eftir þvi ſem mer hana meddeildi i Kaupinhafn 1754. Studioſ. Antiqvit. Jon Olafsſon.

D. T. O. M. S.

Monumentum. VIRI in perennem patriæ ſuæ Islandiæ gloriam nati, in perenne Eccleſiæ Chriſti, qvæ vivit in Islandia aut victura eſt emolumentum, Sacerdotio functi & eodem ſuo Sacerdo-

ari til Abners Dauda, edur til þess 5. Vers i Þeim 3. Psalmi, hvad Verk þeir misg velgæfudu Meñ Sigurdur Gislason og Sr. Jon Eyulfsson elldri a Gilsbacka færdu, vel til Enda. Þeir þricktir 1747. Item þess Sr. Hallgrimur kvedid Psalma ut af Historiu Jonæ Spamañs og Kvædi af Bileam, hvørutveggia þrickt m; Visna Bookeñe 1748. Af Rymna flockum eptir Sr. Hallgrijm eru; (1) Af Lykla-Petri og Magelona. (2) Af Flores og Leo, þar Biarni Joonsson (Skalldi) hætti vid i þiñi 16. Rijmu, þar so biriar "Hleidolfs Bait eg hrindi a Mar, helldur eñ lengur standi "etc. (3) Af Krooka-Ref. Auk þess, sem nu er upptalid, hefur hañ marga Psalma, Kvædi og Gaman-Vijsur eftir sig latid, sem ad nockru leiti fiñast i þessu Kveri, og ad nockru leiti liggur eñ nu hiá mer og ødrum, sem vegna vissra Ordsaka ei þrickiast kañ ad þessu Sinni.

---

dotio sancte defuncti Dn. HALLGRIMI PETri F. Ecclesiarum primo Hvalnesensis & hinc Saurbæensis in Hvalfiardar-Strønd. pastoris dum vixit vigilantissimi atqve in eo ipso officio summo cum honore mortui. posuit,

M. Arason.

Siñi. Einasta læt eg Bak vid þeñañ Bækling fylgia Registur yfir þau oþrycktu andlegu Lioodmæli Sr. Hallgrijmi eignud eru sem hia mer fiñast, i þeirri Von, ad Lands-Meñ mijnir verdi so godir ad gefa frekari Undirretting um þessi og öñur Anecdota hijngad lytandi, og jafnvel meddeila Utskrift af þeim; so sem og nockrer hafa serdeilis viliad til þess styrkia, ad þetta Upplag yrdi mun fullkomnara og rettara, eñ hin undanförnu, medal hvørra eg med skylldugu Þacklæti miñist Velæruverdugs Profastsins Sr. Þorleifs Biarnasonar i Reykholti, so og þeirra æruverdugu Guds-Maña Sr. Þorvardar Audunarsonar i Saurbæ, Sr. Jons Jonssonar a Gilsbaka, Sr. Gudmundar Høgnasonar i Vestmaña-Eynum, Sr. Jons Biarnasonar a Hrappseyri og Sr. Jonus Steingrijmssonar ad Felli i Myrdal, hvør flest Anecdota um tvo nærstlidin Ar, hefur mer tiijendt.

Ad sijdustu get eg þess: (1) Ad i þessu nija Upplagi eru utilætnir nockrir Psalmar, sem, eftir langvarandi Eftirgrenslan og samhliooda Vitnisburdi froodra Maña og nockra Exemplarium hefi adkomist ad eru añara Verk, nefnil. þessir Psalmar: (a) Til Jerusalem JEsus reid, sem er Gudmundar Bergþoorssonar, (b) Oh! ver velkomid Arid nijtt, Sr. Jons Sal. Þorsteins sonar i Vestmañaeynum (c) Andi Guds eilijfur er, Þidricks Arasonar (d) Þraatt mig nu þyrstir,

Sr.

Sr. Jons elldra Eyulfssonar a Gilsbacka, sem og kveded hefur Morgun og Kvolld-Versen, sem i næsta Upplage þessa Bæklings finast Pag. 63. (2) Hvar Smaastiornur (edur Asterisci) finast setter sundverdlega vid nockra Psalma, þa eru þeir einig odrum eignader, og eg i Efa, hvert kvedner eru af Saal. Sr. H. einkum þesse Psalmur: Hiartad kaatt, hofuud þo gaunge styrdt, sem eg hefe sied skrifad vera Svar Sr. Joons P. S. Piislarvotts til Profastsins Sr. Olafs Einars sonar a Kyrkiubæ austur, uppa tilsendan Kvedling under sama Lage, er so byriar Svanur einn siingur her Fugla best; Enn þar 4. Exemplaria eigna þeßan Psalm Sr. Hallgrime, þa læt eg han enn fylgia, unn sin ; eins og Psalmenn " Enn ber eg Andar Kvein", hvorn 16. Exemplaria eigna Sr. Hallgrime enn 1. Gisla nockrum Jons syne, maaske þeim sama, er kveded hefur nockra Rijmna-Flocka, og var til Veru a Sudurnesium. (3) Er i Stad þess undanfellt er, eitt og anad afturkomed, sem eg fullkomlega meina rettelega eignad Sr. Hallgrime, inn til þess mer verdur anad med Rokum sijnt: Þvi ofast hefe eg haft ad minsta Koste 3. Exemplaria vid Hond, er eigna Sr. Hallgrime sem nu er tillagt, enn eckert sied, hvar anar er fyrerskrifadur.

Sa veit giorst, sem reyner, hverſu bagt þad veiter ad faa retta Psalma, Vers og Kvæde, er flækiast her og þar med ymsra Hondum, her

um fyrer 100. Arum sijdañ utkomeñ medal Foolks, þegar ei fæstheigeñ Handar-Skrif þess er giorde; og hvada Vandhæfe a er, ad vita þañ retta Høfund, þegar Utskrifter og adrar Efterrettingar eru miøg tvijsaga, vid hvad oftsiñts hefe var orded: Mun og torveldt, þa añur Upplysing fæst ei, af Hætte Skaldskapar, Ordatiltæke og Crasi, sem eitt Skalld i einu eda andru Tilfelle hefur, eda er vant ad temia ser; ad þeckia fyrer vijst añur þess Verk, enkum þa þau eru ur Lage færd eda þegar Skallded er ser ei alltijd lijkt, hvar til bæde þess Alldur, og ymisleg utvortes og iñvortes Tilfelle geta vered Orsøk. Þetta mætte Sr. Hallgrijm hitt hafa og hañs Verk: Sumt hefur hañ Ungur orkt, sumt Midalldra, sumt Alldurhnijgiñ og Krofs-mæddur; og þvi dreg eg ei þañ Dul ad mer, ad ætle mitt Medfæri ad þeckia hañ ad øllu i øllum sijnum Kvedlingum, einkum i þeim eñ nu Oþriktu, ser lijkañ, ne sumla hañs Kvedlinga (þo eitthvad Afbragd hañ framyfir allmargra) fra nockrum þeirra er nærri honum hafa komist, og stælt eftir honum, sem merkilegasta Þiood-Skalldi. Nu og fyrrum hefi eg brwkad þañ Athuga, i Safni og Sambur-di Utskriftaña, sem Ahølld og Frij-Stundir hafa eftirlaatid: Eñ gooda Meñ bid og virda a hægri Veg Vidleitni miina, og niooti þeir allvel; en Guds-verdi framyfir allt Dijrdiñ!
Hoolum i Hiallta D. þañ 18. Martii 1770.

Hallfdañ Einars Soñ.

# WJJSUR
## Profastsins Sr H. E. S.

1. Punda Guds vel fieck vandad, vitur i Psalma-Ritum, Medferd HALL-GRJJM: Hyrdir, Herrans Sauda Otraudr, Son Peturs, sem Abata, sijst rijrdi Christi Dijrdar, Olatur i Dwk Sveita, ei fool Glof Himna-Josurs.

2. Bordlogd helldur hugdi, hun minni skylldi ei vina, Ard um Jsa-Jordu, enn Raad hafde þarda Þvi er Sal hins sæla, setst i Fognud betstan; enn ver efterfinnum, Agiætst Merkinn Verka.

3. Eitt Sinn oft þo mætti ædur lijta Fiolnijtu, Stef hins Liooda-Lipwsa, logud Ment vera prentud, Bískup GJSLE þann Geisla, Gudfrædis ecki mædist, Landi læta tendrast: Letrad sætt vard betra.

4. Her er Hugvits rijsrum, hægt til bends ad mentast: Her er Hug Ovorum, hermt frea Andar-Grandi: Her er Hugar-særsum, Huggun tryo vel bwinn; Her er Hugar-Kiærum, þvitid Dijrdar Weiting.

5. Ættmañs Hroodrar-Hættum, Hroodur verdt er biodist: fær hefr fegr skrifad, Fordum Liood vorrar Þioodar; nockter nærre hrucku, Nijtur ber af Itum, mäñge mæ skie leingi, meigi jafnast vid Nafna.

6. Breidid mot Eyrum bæde, blijdur Islands Lijdur! breidid ad Hendur bædar, bijdur Gud sitt Ord tijdum: Breidid wt Hiortunn hrader, hlijdid Psalma Smijdum: Breidid Varir vidur, vijda Saungiñ prijdid!

7. Lijsi oss þad Lioosid; Lioos mættum best kioosa; kioosum Veg sem vijsar, vijs er oss þa Prijsiñ, Prijs i Himna Hwsi, Hws þad rækium hwsir: Hwsa loks ad leisast, leisi Gud fræ Hneisu!





# Fyrste Parturenn,

## Jñehalldande nockra Psalma og Kvæde wt af heilagre Ritningu.

### Psalmur uñ Skopun Veralldar, af Gen. 1. Cap.

Ton, Ovinanleg Borg er vor Gud, etc.

Upphafe fyrer sitt eilijft Ord, almættugur Gud skapte, Himen og lijka her med Jord, af hreinum Guddooms Krapte, fagurt Lioos, Firmament, Flood og Purlended hent, Gros, Jurter, grænkud Tre, gaf þeim og Frioofieme, med Ilm og Alldin Safte.

Sool, Tungl og Stiornur sette hann, sialfur a Festing skæra, lijka so Fuglenn lettfærañ, uñ Lofteñ kann sig hræra; J Floode Fiska-Kyn, Fenad og Dijrenn hin, Skepnur skrijdande uñ Folld, skapte seinast af Molld, Mann og hañs Kvinu kæra.

A Himen-

Himeneñ klaar og hijr þar var, hreiñ ann gefande Lioома, Jordenn ann Mad Avoxt bar, med allskins Alldin-Bloome Skepnurnar allar eins, ei kendu nockur Meins, Madurenn hafde um Heim, Hei radoom yfir þeim, i Sælu, Rettlæte og Sooma.

So er nu Drottens Orded eitt, sem ollu vid Magt helldur, ann þess ad giør er ecke neitt, Almætte hanns þvi velldur Þad ORDed eilijft er, allt gott færer med sier, hver sier þar helldur vid, hreppe eilijfañ Frid, gledst þar af Hugur hrelldur.

Jesus er eilijft ORDed þad, einka Lausnareñ goode, fyrer hvern allt ad er skapad, af svifter Sorgar Moode, hann ollu helldur vid, hañ sannañ gefur Frid, hañ slijtur Hryggdar-Bond, hañ bæter Meineñ vond: Fognum þeim Fridar Sioode.

Jesus er Glede eilijf ein, ollum þeim og hañ treysta, hañ er sw besta Booteñ hrein, Bond Synda kañ afleysta, vor Booteñ best til saña, Bæn heyrer syndugs

Mañs

Manns, hann bæter Bol og Pijn, burtsvipter Hryggdum fraa, gefande Nꝍdar Neysta.

O! hvad opt verd eg Ordlaus her, Synder mijnar þvi vallda: Lijknar Ord Jesu! legg þu mer; Laat mig ei Synda giallda; Gled þu mitt Sorgar Sinn, sætaste Jesu minn, laattu mig þioona þer, med þijdre Lofgiord her, og um Allder Allda, Amen.

## Inntak wr Historiu af Balaam,

Num. 23. 24. Cap.

Med Lag, sem Susonu Kvæde.

PA Israels Lijdur einka frijdur af Egypto, wt ried ganga, Eydemork lanisa, yfirdroo, aa Moabs Vollum breidur þoo, þaa um sijder Land-Tiolldum sloo.

Moabita og Madianita Mohuim þaa, stijrde kaskur, kærn og vaskur, Kongur sa, Balak hiet, sem byrta maa, bægia vill þeim Landenu fraa.

Ei ser treyste hann med Hreiste ad hallda Strijd, Angre mæddest, af þvi hræddest,

est, Israels Lijd, vid sijna Menn hann sagde um Hrijd, senn mun bwenn Ofridar Tijd.

Israels Mwgur Mannvals driwgur, Moabs Land, allt mun eyda, Audæfum sneida, og auka oss Haad, eins og Fie, sem ei er gaad, upp vill ræta Jurter og Saad.

Umm þann Tijd hiaa Arams Lijd var eirn saa Mann, Bookenn efner beint og nefner Balaam hann, Spaadooms Ment og Konster kann, Kongurenn vill ad funden se hann.

Sijdann beidde og so til-reidde Sende-Menn, ad Balaam finde og sliott med Skindi i Fiærlægd senn, honum seged Ord mijn enn, Omaks Launenn gelld eg þer Tvenn.

Af Egyptalande Foolk styande Flockum Tveim, Ogna Lid med Sorga Sid nig sæker heim, bid eg þu komer ad bolva þeim, bæde færdu Virding og Seim.

Moabs ærster Herrar hædster hlijddu Gram, stoorar Hæfur Gersemis Gæfur greida nam, braadlega hittu Balaam, bæru sijdann Eyrendenn framm.

Balaam þijdur beidde blijdur bijded

her, ꜳ Morgun Svared fyrr enn fared
fꜳed þer, þeaar vifs eg ordenn er, alls sem
Drottenn kunngiorer mer.

Þessa Noottu þegar i Ottu, umm þenann
Hag, Gud spyr hratt, þad sege eg satt, med
soddann Slag: Hvada Menn med Hefnd-
ar-Plag, hijngad komu til þijn i Dag?

Balaam sagde, senn ad Bragde sende
mer, Balak Menn og bidur mig enn ad biar-
ga ser, af Egyptalande Ogna Her, inn-
fallenn i Rijked hanns er.

Þad eg fregna, hann þikest ei meana
þeim ꜳ moot, fꜳ vill mig ad frelsa sig og
fremia Bloot, so Bolvan yfir þꜳ falle
flioot, og Foolked hreppe Afdrifenn lioot.

Her umm skijrer hann sem stijrer Haudre
og Heim, þo þer bioode Budlung rioode
brendann Seim; lꜳt þꜳ sialfa hverfa
heim, hverge skalltu fara med þeim.

Vid Moabs Menn ad Morgne senn hann
mællte i Stad, ydur bwed, burtu sinwed,
Balaam kvad, giore eg ei þad sem Bud-
lung bad, bannad hefur Drottenn mer þad.

Þesser gænga Leid so længa, ad Lioodenn tiæ, Balaams Svorum, sijnum Forunn sogdu fræ, kinlega vid þad Balak bræ, bioo til adra Sendemenn þæ.

Odling kirre eins og firre uppæ sloo, af sijnum Vinum villdare hinum valde Fo, til Balaams Seggia Drootten droo, vijrar Gæfur Kongurenn bioo.

Spæmann fundu frooder i Lundu og fluttu þar, Erindenn sijn med Ordenn sijn sem æsett var, skijra Gull og Gersemar, gaf þeim aftur Balaam Svar.

Þeim ydur sende af sinne Hende seged þer, þo Hwsenn full med gloodraudt Gull hann gæfi mer, mun eg ei giora hid minnsta her, meir enn Drottens Bifalning er.

Somu Noott þæ Seggia Droott i Svefne var, Balaam beidde, Gud honum greidde gloggt Andsvar, til Moabs Lands þu med þeim far, minnstu hvad eg skipa þer þar.

Osnu bijr og brædlega snijr med Brognum þæ, Engill hreirn af Himnum eirn

sem

fenrþer ſkal tiꝏ, midre Leid þeim mætte a,
mætte hann ecke Balaam ſiꝏ.
Aſnan hneiger wt af Vege, er Engil ſier,
Balaam hriggdeſt hart og ſtiggdeſt, hun
var þver, Himnabwen frijdur fer, frꝏm
Leid þar Gyrding ein er.
Sinn var Gardur hꝏr og hardur a
hveria Hlid, Engill merkur ſtoor og ſterk-
ur ſtood i Mid, Footuren kreiſteſt Veggen
vid, vard ad gꝏnga þanen a Snid.
En foor leingra a Einſtig þreingra En-
gell ſkær, Aſnan Vegen engvanvegen ark-
ad fær, Balaam hana biſtur ſlær, a bæde
Knen þvi fellur hun nær.
Oſnu Munne eirn er kunne upplauk þꝏ:
Himens og Lꝏda hædſtur Drottenn Herr-
ann ſꝏ, feck hun Maal og fliott nam tiꝏ,
fyrer hvad giorder þu mig ad ſlꝏ?
Balaam rioodur Reide moodur rett ſo
tier, ertu ſleigen, af þvi Vegen ecke fer,
hefde eg Spioot i Hende mer, hefna
ſkyllde Daudenn a þer.
Eg þijn Aſna Lima laſna lwen og þreytt,

fra Barndoom þijnum bar þig a mijnu
Bake greidt, hvenær giørde eg eins þer eitt?
Alldrei fyrre, sagde hann, neitt.
Um þa Stundu opnast mundu hanns
Augunn þa, af Drotteñs Raade, rett so
tiaade Ritning fra, blessadañ Engil Ba-
laam sa, med brugdnu Sverde Vegin-
um hia.
Nieg sig hneigde, miwkt og beigde
Madurenn braatt, Engell traustur trigg-
ur hraustur talade haatt, hvar fyrer sloo-
stu Prisvar þraatt, þijna Osnu af Reideñ-
ar Maatt?
Ef hun eige vike wr Veige, ad vijsu her,
hefñe hægt eg hefde vægt eñ hefnt a þer,
Vegur þiñ ei þocknast mer: Þar a mooti
Balaam tier:
Eg ei þeckte, og þad mig bleckte, ad þu
varst nær, vijk eg fra ef være sa þinn
Vilie kær, aptur svarar Engell skær,
Ordlof þu til Reisunnar fær.
Varast skalltu umfram allt, kvad En-
gill greidt, ad mæla par fyrer Þeingil

Þar, þo þess se beidt, taladu ecke annad neitt, utann hvad eg skicka þer eitt.

Balaam fra eg ferdast þaa og finnur fliott, Moabs Gram, sa glediast nam i Gedenu hliott, bad hann villde bwast skiott, og Bolvan leggia a Jsraels Drott.

A Fialls Hædum ei fiarstædum Ølltuzenn haa, bygdu Sio og fyrna Fie þar foorna aa, til var reint umm Tijma Pria, takast ecke Bolvanenn maa.

Vid Offred hvert geck Balaam burt fra Brognum snar, med sama Hætte honum mætte Herrann þar, maatte hann ei mæla par, moote þvi sem tilskickad var.

Balak reiddest beint og beiddest braatt i Stad, hverke þessa hata ne blessa Hilmer kvad, Spaamann komst so Orde ad: ecke leifir Drottenn mer þad.

Spaadoom blijdann surdu frijdann feck hann tiaad, þad er rett med Rokum sett i Ritning sfraad, Kongelagde hann Kænsku Raad, kom þvi seirng Ressingenn braad;

Ferdast heim af Funde heim sem fra er tied, Jsrael hart a heidna snart þa hera ried, eyddu Foolke eñ eignast Fied, eirnenn fiell þar Balaam med.

## Historia af Jona Spamanne, Fyrre Psalmureñ.

Ton, Nu bid eg Gud þu under mig, etc.

Til Jonas Spamanns talade Gud, tak þig strax upp sem eg þer baud, bráidlega Ferd þijn byriud se, i Borg þa stooru Ninive, þu skallt fara heim Fregner þær, Fordiorfun strax se bwenn nær, Hroop þeirra Synda heyre eg þratt, Hefnd og Refsing heim kemur brratt.

Þar epter Jonas heinkte vijst, þangad vill ei hañ ferdast sijst, Drottne hugdest ad flyia fra, fordast so mætte Skickun þa, leigde ser Far og Giallð til gaf, geck strax a Skip og lagde i Haf, ætlade so i annad Land, um Herrans Bod ei sinte Grand.

Sem þeir nu Lande sigldu fra, Sioorinn rook miog ad ysast þa, ofur Storm- Wind-

Vindur i einum Skip, yfirdreif bæde Menn og Skip, Farmenum hratt þeir hrunduwt, hvor bad sinn Gud med Trega og Swt, Jonas i Lypting laa og svaf, lijted sig allt umm þetta gaf.

Skip-Herrann umm þad undrast vann, ofann geck þar og vakte hann, sagde: hvar fyrer sefur þu? skaar Lijfs-Naud ad oss gengur nu, rijs upp þegar og þinn Gud bid, ef þad maa ske hann veite Lid, Urrædalauser aller ver, i þessum Storme toppunst her.

Af Hiarta bædu og hietu þeir, hættur Storm-Vindur Or þvi meir, aasamt þeim kom, þad einhvers Volld, yfer þaa leidde Hefndar-Giolld, Hlutfalle varpa hratt i Stad, hiaa Jonas sijdast lendte þad, ottast miog þegar soddann sia, so vid hann aller ræddu þaa.

Seig oss hvad hellst þu hefur giort, fraa hverre Þiood þu komenn ert, eda hvor til þess eru Rok, oss hender slijkt fyrer þijna Sok? Eg er, kvad hann, Ebreskur Mann,

og so trwe a Drottenn þann, hvor Himenn skapte Heim og Sioo, hvers Befalning eg gleymde þo.

Sem hann hid sanna hernide fra, hrædder wr Maata spurdu þa, giordu nu sialfur giorla a Skil, giora hvad eigum vid þig til: varped mer, sagde hann, Siooenn i, so verded þer wr Hæska frij, eg veit ad minna vegna her, Vindurenn þesse komenn er.

Moot-Roodur þwngann þreyttu þeir, þa vox Stormurenn laangtum meir, grææande baadu af geistum Mood, Gud reikne oss ei til þess Manns Blood; So vär Jonas i Siooenn sockt, samstundes Vedred mæddest snoggt, Mennerner Ottast miog vid þad, Myskunar serhver Drottenn bad.

Drottenn sende eirn Hval-Fisk hratt, hann kom þaangad sem Jonas datt, uppsvelgde Mannenn i sinn Kvid, ei stood þar sijdann lenge vid, hann bad og gret med beiskre Þra, bænheyrde Gud Andvarpan

þaa; Þrim Daga luktur laa hann þar, lijka so Nætur eins margar.

Fyrer Guds Ord og Almaatt hanns, aptur Fiskurenn rann til Lands, Ofvodd-uddum med ollu þo, uppaa þurt Landed Jona spiod. Mikil er Drottenn Myskunn þijn, minstu her eirnenn lijka mijn, so eg frelsad-ur synge þer, sanna Lofgiord, sem skylld-ugt er, Amen.

## Sijdare Psalmurenn.

Ton, Natturann oll og Edle Manns, etc.

Annad sinn Drottenn epter þad, astur vid Jonas sagde, i Ninive þann stoora Stad, strax skalltu fara ad Bragde, Ord-sending ber, sem byrte eg þer, Borgar Monnum þar inne; hann ferdast þaa, sem fliootast maa, feste þad Bod i Minne.

Þriggia Dagferdar Stadurenn stoor, stendur ad Ninive være, eina Dagleid so wt af foor, alvarlega sem bære, kallande hratt, eg segie þad satt, so vill Drottenn tilhaga, Borg ydar haa, umturnast maa, innann Fiorutijge Daga.

Brædlega trwdu Borgar-Menn, Bodskap Drottens þa fengu, Unger og Gamller aller senn, iklædder Seckium gengu, Kongurenn þa er soddann sa, sinn Browning af sier lagde, i Osku sat og græted gat, gaf Skickun slijka, og sagde:

Ei skuln Menn og Meallaus Dijr, Matar ne Fædis neita, hver sem her innann Borgar bijr bidie med Iltran heita, aflegged brætt a allann Hætt, Illsku og Synd margfallda, mæsse Drottenn, minnest vor enn, so megum Lijfe hallda.

Enn sem Gud Drottenn alla sa, Yfirboot Ninive Manna, Myskunar hrærdest Herrann þa, hann elskar Trwna sanna, angra sig let þad adur hiet, Illsku þeirra ad hefna, veitte þeim Grid, gaf Lijfn og Frid, Gædskunnar sinnar vegna.

Jonas fieck sied sw Fordiorfun, sem fyrerspad hann hafde, yfer þa koma ecke mun, Ogæfann lenge tafde, honum þad mest, misþocknadest, mæstte med hryggvu Bragde, eg visse þad, og þar kem ad,

sem Þrankinn mer madur sagde.

Þut Sinni Drottinn þecki eg bert, þvi villdi eg undann flyia, Mönnunnum jafnann milldur ert, sem mvot þer Synd-er dryia, ydrest þeir nu, þeim þyrmer þu, þo læter Hefnd tilsegia, Spaadoems Ord þad, fyrst fann ei Stad, fyrir mig helist ad deya.

Andsvar af Drottne aptur feck, ad sin-ar Reidi gætte: Strax sydan burt wr Stadnum geck, sinerladur med þeim Hæt-te, Hreisis korn þar, þvi Hitinn var, yfir Høfdi ser hann byggde, og villde faa, med Sanni ad sia hvad sinn Spaadoems dyggdi.

Drottinn let vaxa lioosann Lund, laangt sijnar Greiner breidde, saa rann þar uppi saimri Stund, sæt Bloomstur þo fram leidde, vid þetta Gras, gladdist Jonas, Gedfrooa ser þad talde, þaa Soolinn hrein, skarpheitt ad skein, sig i þess Skugga falde.

Gud Drottinn let þaa Lunden þann, lijt-cnn Orm stijnga kunna, uppvisnade med ollu

hann,

hañ, ofannfell strax til Gruña, Austann-Vind gre'tt,. Soolskin sæirheitt, senda red Herrann millde, Jonas þreittest, og þiædest mest, þa sagdest deya villde.

Þikest þu, Jona, reidast rett? rædde Gud med þeim hætte, þennañ Lund hafder þu ei sett, þiin Hond hañ eckert bætte; æ einnri Noott, sæ upprañ skioott, adra þo strax visnade, miog þanniñ her, wr Mæta þer, misl'jkar soddañ Skade.

Skyllda eg ecke ollu meir, afvenda Reidi minni, Toolfsiiñum Tiju Þusund þeir, þar eru i Stadnum iñi, sem eingiñ Skil, skiniudu til, ad skifta um̃ Vinstri og Hægri, nu siædu her, nærsta er mer Nædeñ enn Reidenn fægre.

# Nockrar Saung-Vijsur,
## af þeim serlegustu Christi Krapta-Verkum.

## I

## Um̃ Brwdkaupid i Cana, Joh. 2.
Med Hivona Siñu Lag.

A Galilæa Laadi, lioost i Cana Stad, med Gengd og goodu Raade, giordest Brwdkaup þad, Moodir Drottinns dvaldist þar, Jesus og so Sveinar hans, sialfur bodinn var.

Þaa nam Dryckur þverra, þetta Maria ser, hun geck til vors Herra, hoogvær þannig ter: Son minn kær! þar vantar Vijn; hvad hef eg med þig? Christr kvad: Kominn er stund ei mijn.

Vid Þenara þijdust sagde: Þad sem bijdur hann, giorid brátt ad Bragde: Byrte eg Adburd þann, Stein-Ker Sex þar stoodu rett, tooku Mæler Tvo edur Þriu, til Hreinsunar sett.

Volid twi eg batne, bijdur Jesus enn: farid, og fliott af Vatne, fyllid Kerinn fenn, Barma full þeir bera þau inn, Kiæmeistaranum ad færa fyrst; Frelsarinn baud um Sinn.

Vatn ad Vijni ordid, vijst hann smackar þaa, geck so beint fyrir Bordid, Brwdgumann kallar aa, hann vissi ecki hvadann

þad var, Obeuvijje enn er nu sked, oss til haga bar.

Vant er Vijnid besta, ad veita allra fyrst, þar til Gedid Gesta, gledst med Heidur og Lyst; Lettara siidan bioodast ber; eñ þu hefur þad hid gooda geymt, og gefid seinast her.

Jesu Jardteikn Fyrsta, Johannes seg-ir þad, Hiaona Hiartad twista, hañ i þess-um Stad, gladdi, og sijndi sijna Dijrd: Honum se bæde Heidur og Pock, af Hu-ga og Munni skijrd, Amen.

## II

## Uñ Kongs-Mañiñ af Capernaum Joh. 4.

Ton, Gædsku Guds ver prijsum, etc.

Koongs Mann fraa Capernaum, kom einn til Jesum þar, þar fyrir Dogum fraum, Frelsariñ geinginn var, beint inn i Cana Borg, og sagde Son sinn væri, siukur og Dauda nærre, þvi bar hann þwinga Sorg.

Traudlega trwad fraid, taladi Jesus þar

ka, nema þer nockur sierod, nijstarleg Jardteikn þa: Aftur þa ansar hiñ, Hvaßt iñer harla bradur, Herra! kom þu nu Madur, enn saalast Sonur minn.

Hug-Gædi Herrann mædde, hanns Naudsyn giørla ser, vid Fodurinn frá eg so rædde, far þu, Son þiñ lifir, Madriñ merkti þad, trwdu þoi eina Orde, og þad sig reida þorde, geck so gladur af Stad.

Haũs Pioonar honum mættu, Heimleidis vegi a, Hwsboondons Hiartad kættu, Hug-gladir mæltu þa, Sonur þiñ lifir liooft; Haũ spyr, nær Sorginn siatnad, og Soottinn hefdi batnad? Peir ansa med eingann Pioost.

Seññ uũ Siounda Tijma, so bar þad til i Giær, Kolduñar særum Svijma, sviptist haũ ollum nær: þa fornam Faderinn, sama Mund soddan skiedi, sem Jesus honum tiedi: Siea, lifir Sonur þiñ.

Her vid haũ vard miog gladur, og vel i Trwñi hress, hvor haũs Heimilis

Madur, honum fylgdi til þess, Krapt Herrañs kendi hert, þad Jesu Jardteikn Añad, Johannes hefur sannad, i Galilæa gerdt.

III

# Uñ þañ sem 38. Ar lá siwkur.

Joh. 5.

Lag. sem Pijslar-Minning.

Heilög var þaa hátidinn ein, Haatijd Gydingaña, Sonur Guds sem græder Mein, gaangared, sialfur med, til Jerusalem; So er sked, ad Sid Jsraels Manna.

J Borginne var Brunnur sá, Bethesda ad Heite, Fordyr voru Fim þar aa, feckst þeim skioot, Heilsu-Boot, sem mædu allskyns Meiniñ lioot, og margir trw eg þess neyti.

Engill Drottins eina Tijd, upp red Vatnid hræra, svo hver helst af siwkum Lijd, sem ad-bar, fyrstann þar, ef sig þvode, alheill var, eins og Barnid skæra.

J Fordyrunum sem fra er greint, Fiolldi siwkra Lijda, var, og beid so vissi beint, nær Vatnid stært, yrdi hrært, Þvi læknа villdi Lijsid særdt, af laungum Soottar-Kvijda.

Medal þeirra Siwkdooms saar, sagdt er Madur væri, Þriatijgi oll og Atta Ar, aumur Neid, þwnga leid, eftir Lækning blijdri beid, Bolid trw eg hann særi.

Þegar Jesus þeña sa, þar ad gloggt nam hyggia, ad leingi hafdi þwnga Þraa, þolad hann, mæla vañ, Herrañ vid þañ veika Mañ: Villtu Lækning þyggia?

Svara nam hinn siwki bratt, saarum halldiñ Kvijda: Einn verd eg þvi eftir þraatt, einginn her biargar mer, annar iafnañ fyrri fer, frekt hlijt eg ad bijda.

Herrañ þegar heyrde þad, um hanni Briosti kendi, gacktu hedañ heill i Stad, hinn þess naut, mijnkar Þraut, þijna Sæng þu ber a Braut: J burtu Mal-inn vendi.

Sem nu Judar saau þad, hañ Sæng

a Herdar lagde, honum gaafu þeir hóst-
ugt Svar: Hvatijd sw, ein er nu, Bodord-
in̄ þvi brijtur þu? beint hann aftur sagdi:
Sa sem heþur mig heilan̄ giort, hed-
an̄ baud eg færi, sialfur vid mig sagdi be-
rt: Sicodu her, tak med þer, þijna Sæng,
þvi friaals þu ser; þeir frettu, hver hn̄ være?
Madurinn kvadst ei þeckia þan̄, ne þe-
im þar framar gegna, þvi Herran̄ burtu
vijkia vann, þa var han̄s bætt, Meinid
hætt, feck hann þess ei framar giætt,
Foolks mergdarinnar vegna.
J Musterinu Madurinn sa, mætti vo-
rum Herra, soottlaus ertu, sagde hann
þa, syndga ei nu, framar þu, ad þig hendi
ei Anaud su, ne annad hálfu verra.

IV

Um̄ Stormin̄, og þan̄ Oda
Mann, Marc. 6.
Ton, Gædsku Guds ver prijsum, etc.

Hiwfur med Lærisveinum, Lausnarinn
Jste a Skip, Hvirfil-Vind ovart ein-

um, yfirsloo Þegar i Svip, okyrdest Haudur og Haf, under Asollum sau, eng-va Mann-Hialp, Þvi saa, enn Herraññ sialfur svaf.

J Þeim Lijfs Hæska hrædder, hann feoru ad vekia brætt, af Mood og Ecka mædder, mælltu so aller hatt: Hialpa oss Herra kær, laat Þig ei lijtt umm varda, ad lægia Stormenn harda, so ecke sockvum vær.

Hann vaknar vijst, og ræder, vid Þaa alla senn: Hvad er Þad ydur hræder, hellst os-veik-trwa Menn? Og settest upp vid Þad: Þaa baud ad Vindureñ Þegde, bylotande Vatn sig legde: Blæ-Logn vard strax i Stad.

Undrast aller vid Þetta, er Adburd lijta Þañ, hver aðrañ her umm fretta: hvilijkur er Þesse Mann? Strax Þaa hañ talar til, Hofudskepnurnar honum, hlijda, so framar Vonum, hanns einu Orde i Vil.

Lending i Logne fengu, vid Landed Gadara, skiott er fraa Skipenu gengu,

skede

skede Tilburdur' sia, adkom þar Odur Mañ, af illum Ondum hrakeñ, Olmur, Vitstola, Nakeñ, greiner so gloggt um hñ.
Ur Jaarne og Bondum bæde, broteſt oft hafde sia, med Grimd og Ogna Ede, so engeñ ferdaſt ma, uñ þañ Almennings Stig, dvaleſt a dockvum Heidum, i daudra Manna Leidum, lemiande sialfann sig.
Fram fyrer Jesu Fætur, falla giorde brætt, Anden mióg illa lætur, æpande kallar hatt: hvad hef eg þo med þig? Saññe Guds Sonureñ kære, so fyrr enn Tijmeñ være, kiæmer ad kvelia mig.
Þa sagde Græðareñ goode, grein mer þitt Heite þo, Andeñ mællte af Moode: Mitt Nafn er Legio, þad hafa hyggner Menn, Sex Þusund samañteiknad, Sex Hundrud þar med reiknad, Sextiju og Sex til enn.
Dioflar af dóprum Trega, dæmder i Heliar-Vist, badu mióg mikelega, milldastañ Jesum Christ, fyrst þadaun fære

wt

wt, ad hann ræke þa ecke, i Underdiwp-
anna Flecke, med falldre Kvol og Swt.
Frelsarans Leife fengu, ad fara i Svijn-
enn þar, sem umm þær Grunder gengu,
Hyrnd sw Dioflanna var, þau voru Tvo
Þusund, oll strax med Ogn og Kvijda, wt
i Vatned hijda, og suckuu i samre Stund.
Svijn-Hyrdar fuller Sorgar, settu a
Flootta heim, bæru þa Fregn til Borgar,
umm Vagann sem vard fyrer þeim, hiner sem
hlijddu a, undrast og Otta fengu, alment
wr Stadnum gengu, soddann Tilburd ad
sia.
Hann sem var adur Odur, og engva
Skynsemd bar, sat nu Sidferdes goodur,
sann-heill hia Jesu þar, Lands-Menn þa
litu hann, hiner sem hia voru stadder, i Huga
og Sinne gladder, sogdu þeim allann Sann.
Herrann blindheimsker bædu, i burt ad
vijkia umm sinn: Sealar Gagnsins ei gædu,
þeim gramdest Fiar-Skadenn, so villter
voru þeir, Hialpar Von sæla hreptu, henne
viliande sleptu, enn mottu Svijnenn meir.

Hañ hver ad læknast hafde, her sem var mdür tied, Lausnarañ Leifis krafde, ad lijka fære med, eñ Jesus sloo þvi af; Far hell-dur heim til þiña, Hiælpræded skallt þeim kyña, sem Gud þer sialfur gaf.

V.

## Uñ Krafta-Verk Christi að Braudum mille 5000. Mañs, Joh. 6.

Med Lag, Eirn Herra eg best ætte; etc.

Yfer uñ Vatned eina, sem er i Galilæa, Jesus med sijna Sveina, sialfur ferd-adest þa, Tiberias nockud nærre, (Nafn þetta Stadureñ bar), Paaskum vijst var ei fiærre, ad Venin Gydinga þar.

Fylgde þeim Mugur Maña, mikill að þeirre Tijd, Goodvilld hañs sau saña, vid siwkañ og auman Lijd, uppa Fialls Hæder einar, Endrlausnareñ geck, lijka hañs Læresveiner, litla Stund Hvijld þar feck.

Upp leit hañ lioost ad Bragde, Lijds Fiellda mikenn sier, vid Philippum seað sagde, Foolked Mat-lifugt er: Til Kaups hvar mattu meina, Meñ fære

Braud-

Braudum nærd? So villde Sveinenn reyna, þo siaalfur visse noog Raad.

Philippus took ad telia, Tvo Hundrud Peninga Verd, framm þo Menn fenge selia, Fullnægia mun ei giord, Andreas at þad heyrer, einn Brooder Simonar, villde Raad veita fleyre, vid stadder gaf þad Svar.

Ungmenne eitt eg kende, Andreas mæla ried, Fimm Bygg-Braud hefur i Hende, hier og Tvo Fiska med, hvad skal þad þo fyrer þessa? Þaa talar Jesus haatt: seged, þeir fære sier Sessa, samann i Riðlum brædt.

Herrann ried Braudenn blessa, braut, og til Himens leit, framm bæru Fædu þessa, fyrer so marga Sveit, aller þeir urdu saddar, eins af Fiskunum med, og vel i Giedenu gladder, Guds Verk so fengu sied.

Leifunum samann safned, Sonur Guds baud tier, og engvu af þeim hafned, so eckert spilltest hier: Er þad ei Undur ad heyra, allt þetta so til bar, Afgangs var ollu meira, enn Efned i Fyrstu var?

Toolf Karfer fullar fengu, fram eg so

Skriften tier, og þær Leyfar afgengu, so eckert spillest her; Fimm Þusund fædde hin hreina, Forsiooneñ milldegiorn, Kall-Meñ upptallda eina, fyrer utañ Konur og Born.
Um̃ Kvollded liet Læresveina, Landenu halda fra, hañ var efter alleina, Astar Bæn giørde þa, Mootvidre megnt þa þicade, miog dimt af Noottu þo, Jesus þar gloggt ad gaade, geck a þeim diwpa Sioo.
Nær um̃ Fioordu Eikt Nætur, nalgadest Jesus þa, þeir hafa a þessu Gætur, þoottust Forynju sia, upp kalla Otta mædder, eñ Jesus ansar kær: Vered aller Ohrædder, eg er her sialfur nær.
Petur svarade og sagde: Sertu þad Herra miñ, biood þu eg kome ad Bragde, beint nu a Funden þiñ: Far þu, kvad Frelsareñ millde: forlet hañ Skiped þa, og geck sem greidast villde, gladlega Sioonum a.
Baraañ ried bratt ad stockva, bilade Petur Traust, hañ took þa señ ad sockva, sagde mz harre Raust: Hialpa mer Herrañ blijde, hañ Jesus ad sier droo; og spyr, þvi

Þvi tæpt hañ trijde? til Skipsins gengu þo. Ord sitt og Bws-Rꜳd bæde, blesse oss Jesus hreiñ, so Lijfs og Sꜳlar Fæde, sedie þꜳ hvern og eiñ; Sꜳ til eg sockve eige, i Synda Daudañ her, helldur ad hialpest mege, halldtu vid Trwna mer.

## VI.

## Uñ þañ sem blindur var fæddur

Joh. 9.

Ton, Fader ꜳ Himna Hæd.

Jesus frꜳ Juda Lijd, wr Jerusalem einn Tijd, utgieck sꜳ oll Mein græder, uñ þad Johannes ræder.

Sat Madur Sioonlaus þar, sꜳ blindur fæddur var, hart nærre Herrans Veige, ꜳ helgum Sabbatz Deige.

Læresveinar hañ sꜳ, so spurdu Herrañ þꜳ: Hvort eigeñ mun Illska hañs vallda, eda Forelldra giallda?

Hvorke kvad Herrañ sniallt, hañ sijnne þeirra gallt, Guds Verk eiga auglijsast, og ꜳ honum ad prijsast.

Verk Guds mer vinna ber, vijst med-

añ Daguredur, Fdiu Mann engva fremur, yfir þar Nootten kemur.

Eg er Liovs Heimsins hreint, Herrann talade beint, medañ Uñgeingne mijna, hiar Monnum læt eg skijna.

Herrañ þar hræktea Jord, heilnæm vard Lækning giord, Saur hrærde samañ ad Bragde, so vid hañs Augu lagde.

Hañ baud þeim blinda þar, i Brunne Siloa, þvo ser skiootlega skyllde, ef skijra Sioon odlast villde.

Hañ geck og giorde so, greitt nam sijn Augu þvo, heilskygn kom þar heim aptur, Herranns þvi olle Kraptur.

Natturann borenn blind, bleckt er af margre Synd, miñ Jesus mig upplijse, iner a Hialpar-Veg vijse, Amen.

## VII.

## Uñ Lazarum af Dauda uppvakiñ.

Joh. 11.

Ton, Tunga mijn af Hiarta, hlioode, etc.

Johannes seger med soddann Hætte, Sijwkur Madur eitt sinn lá, Lazarus, þad

þad Sorgum ſætte, ſᴐa var i Bethania, Syſtur Tvær er iñt hañ ætte, Oñur nefn- eſt Maria.

Hün vat þad ſem Herrañs Fætur, hentuglega ſmyria ried, Hꝛare ſijnu Svañ- eñ mætr, ſijdañ aftur þurkar mz, Orde Lijf- ſins gaf ad Gæt, i Gudſpiallenu ſo er tied.

Marthá einnig Oñuur heiter, Orde Drottenns hiellt ſer ad, Lauſnaranum ſeni Lækning veiter, letu ſegia þegar i Stad, ſᴐa þu elſkar Sootteñ þreyter; ſvarade Jeſus uppa þad:

Ecke er ſoddann Sootteñn eina, ſend honum til Dauda fyrſt, helldur ad Drott- enns Dijrdenn hreina, dꝛadſamlega aug- kijſteſt, oll þau Syſtkyn eg mꝛa greina, elſkud voru þo af Chriſt.

Dagana Tvo þar teſia riede, tilſett var þad Herrañs Rꝛad, ad Vilia Guds ſiñ Skickun ſkiede, hann ſkamtar Tijma af ſinne Nꝛad; Fylgdar-Monnum Frelſ- arenn tiede: Forum nu a Gydinga-Land.

Poſtular ſvara med Gegndar-Gillde,

giora senn ꝏ þessa Lund, Gydinga Foolk þiggrijta villde, þꝏ geckstu þar umm eina Stund; Hvar fyrer gyrnest Meistarenn millde, meir ad koma ꝏ þeirra Fund?

Tijmar eru Toolf i Deige, talade Spekenn Guddoomlig, Byrtu nioota Madur mege, mun sꝏ gꝏnga rettann Stig, hinn sem Liooseð hefur eige, hrasar oft og meider sig.

Lazarus vor Vinur sefur, vekia fer eg aftur hann, þeir segia: Batnad hönum hefur, Hvijld og Værdꝛef finna kann, þenn ann Skilning Þꝏnkenn gefur, þeim umm Svefn nꝏtturlegann.

Lausnarenn þeim liooft nam gegna, Lazarus daudur er til Sanns, enn eg fagna ydar vegna, ad ei var eg þar i Bygdum Lands, vær skulum þetta framar fregna, forum nu og vitium hanns.

Thomas Postule took ad segia, Tvijbure sꝏ nefndur var, Lærefveina Hug nam hneigia, hann gaf fyrer alla Svar, lꝏtum oss fara og lijka deya, liooft med

hön-

honum einnig þar.

Kom med Guddooms Krafte hogum, Christur til Bethania, Lazarus fyrer Fioorum Dogum, framlidenn i Grøfenñe laa, wr Borg og nœnum Bygdarlogum, bar ad marga Gydinga þaa.

Þesser gættu goodrar Skylldu, gengu i Sorgar-Hwsed inn, Gied-Svølunar Mœle milldu, mœlltu, so eg ritad finn, hrelldar Systur hugga villdu, harmande epter Broodur sinn.

Martha heyrde Meistarenn skiære, milldur kœmeumm þetta Skeid, og i Nœnd ad vijsu være, villde gannga heim aa Leid, moote honum fraa eg hun fære, fyrst, enn Maria efter beid.

Angrud Jesu Andsvor greider, ef þu hefdet vered her, Brooder minn (þvi Naudsinn neider) nu lifde saa daudur er, enn eg veit hvar umm þu beider, allt mun Drottenn gefa þer.

Aptur Jesus ansa nœde, upp skal rijsa Brooder þinn, vissulega Vijsed tiaade, veit

eg af þvi Herra miñ, hañ mun verda Lijfs
a Lande, þa lioomar efste Daginenn.

Upprisan og eirnig Lijfed, er eg sagde
Jesus þa: Uggalauser um þad blijfid, all-
er sem mig trwed a, þo funded hefde Hel-
iar Kijsed, hvor mer treyster, lifer sa.

Sa her lifer enn med Anda, og a mig
treyster Heime i, hættulegt man Helei
granda, hann skal verda Dauda frij, skip-
tur ollum Saalar-Vanda, segdu mer, ef
trwir þvi?

Trwe eg þu sert, kvad Evanneñ rætte,
Sonur Guds med helgum Sid, og Chri-
stur sa-sein koma ætte, ad kvitta af Synd-
um Mañkyned. Samtal þeirra ad Eiñe
hætte, so skilldest hun Herrañ vid.

Martha hrinder hordum Moode, heim-
seides med Skynde ser, vid Mariu giorde
mæla i Hlioode, Meistareñ er komeñ her,
bijdur þijn sa Gradareñ goode, og gior-
er Bodskap epter þer.

Uppstood Maria og med Skynde, ut-
geck fra þeim Mwga Manns, so hun

dijrdst-

Dyrdstann Drottenn finde, dunde Vatned
Hvarma-Ranns, þaa var Jesus þijdur i
Lyde, þar sem Martha kom til hanns.

Fiolfed sier ad flioott wr Maata, fraa
þeim vijkur Giefne-Lijns, allra þeirra ein
var Gaata, sem Efned greiner Hroodrar
mijns, eflaust wt hun geck ad graata, hiaa
Grofinne hanns Broodur sijns.

Til Herrans kom med Hryggdar-
Taled, Hiartad mædde Sorgenn stinn,
Augun i Briooste fann hun faled, fiell aa Kne
og rædde umm sinn: hefder þu hiaa ofs Drott-
enn dvaled, daudur være ei Brooder minn.

Þegar hann saa'ad Sorgar-Plaata,
sart umm hennar Briooşted laa, Foolfed
allt i annann Maata, aangrad leit þar stan-
da hiaa, Sonur Guds toof sialfur ad
graata, i sijnum Anda gramdest þaa.

Sijn aa mille margur rædde, maa nu
sia hanns Elsku-Gied, sa sem blindann
sierla grædde, gat hann ecke vid þvi sied, ad
Daudenn so yfir einn Mann ædde? Al-
mœgenn þad mœla ried.

Lazarus hvar lagdur være, Lausnareñ so spurde ad; eñ þeir svara so sem bære: Sie þu, Herra! þeña Stad. Myskun trwe eg Hiartad hrære, hriggdest Jesus eñ vid þad.

Til Grafareñar Herraũ hreine, hér nærst sialfur gaunga vañ, hun var byrgd med stoorum Steine, strax baud þeim af taka hañ; so þeir giordu, sem eg greine sagde Martha þaa vid hann.

Lijked siñ eg fwlna uñ sijder, Fioora Daga her þad laa, Ordum þessum Herrañ hlijder, henne aftur gegnde þaa: sagde eg ecke ef þu trijder, ad þu munder Guds Dijrd siaa.

Til Himens leit þaa Lausnareñ millde, lofud se, Fader! Gædskañ siw, hvers eg af þer oska villde, uñ þad mig bænheyrer þu; eg tala so Foolked trwa' skyllde, til þeirra mig sender nu.

Lausnareñ kallar lioosum Hlioome: Lazare! þu kom her wt. Hiñ daude hlijdde Drotteñs Roome, doprum reyrdur Lijkbands Hnwt, leysed hañ kvad Herraun

froome

froome, so hiedann gængi fyrdtur Swt. Judar marger trwa tooku, Tæknid slijkt er saaᵘ þeir, liwsum Jesu Letning joeku, Lofs-Tijr þessi alldrei deyr, Pharisæarner Svika klooku, sig forhertu æ þvi meir.

Þvi eg treysti, og þad er mijn Trwa, þu ert Jesu Lijfid mitt, þa hedann burt fraa Heim skal snwa, helld eg mer vid Ordid þitt, Saalunni virdstu Sælu ad bwa, so hun verdi af Naudum kvitt.

## Stutt Innihalld Pijnunnar og Daudans Drottins vors Jesu Christi.

Tón, Strijds-Menn þa hofdu kroffest Christ.

Mier er af Hiarta Minnisstæde, Meynkunar-Verkid þad, Jesus var staddur i Hryggdum hætt, harmandi Prisvar bad, Gydinga Lid þo geingi ad hrædt, greip hann og batt i Stad, Saalinn hanns var af Sorgum grætt, saar Pijnann geck þar ad.

Hann hefur dregid hrakt og hrjaad,

Harðsviiend Juda Drott, með Lygum Spotti, Hroop og Hæð, hrækiandi ꝏ hañ Fioott, var honum hvorki Værd ne Rað, veitt um þa diñu Nott: allt hann fordæmdi Andlegt Ráð, ei gieck i Ráðañ bliott.

Heiðnum Doomara i Hendur feck, Herrañ sw grima Pisod, Almugiñ fram þar allur geck, æpti medsamfelld Hlioodz: Fær hañ ꝏ Kross og Kvala-Beck, feme yfer oss hañs Blood, Mordingia Liif-Gief meir var þeck, mieg hætt þa Krooßiñ stood.

O hvad grætlegt, Aumkunar verdt, eitt var sū þar til bar, vid hart añ Stoolpañ streingdur þvert, stood vor Lausnariñ þar, hærsta Guds Sonar Hollðid bert, hwdstriikt med Svipum var, Æðar, Skiñ, Horund og so skert, ofsaddad fañst ei par.

Þyrne, Koronann Svida-saar, sundur hañs Enni sleit, Blooded uppfyllti Augnañ klaar, og alloñ Sioonar-Reit, Frelsariñ bæde leit og Blaar, Forsmaan hverium.

hann leit, Last Ord, Sløg, Spielne, Spott og Dár, sparade ei Þræla-Sveit.

Tre Fimtan Foota lángt var liooſt, lagt á hans Herdar hardt, breidt Fiøgra Alna þvngt med Þiooſt, þad herma Bækursatt, uppgefinn var med ormædt Briooſt, undir þvi Þrisvar datt, umm sijdir framm þa Ferdinn drooſt, á Fialled Golgatha bratt.

Særdur i Kullda klædlaus þo, Christr sat lánga Tijd, á medann øll til Bødulls-inn bioo, Bana Verkfærin strijd, erþyrstum Munni cirn ad droo, Edik Gall-blandad Nijd, oddbrotna Nagla Olldinn sloo, i Hønd og Foot umm Sijd.

Krossfestann hæddu Høfdingiar, og hvor sem þar geck hiá, Harmkvæli þung og Hædung bár, Herrann umm Tijma þriá, sydann burtslitinn Sálinn var, Sondlausu Holldi frá, Hiartad saarbeittur Brodd-ur skar, Blood og Vatn rann wt þa.

Last-Ord og Brijxl fromlidinn feck, Falsara søgdu hann, Flockur Prestanna

fyrir hvi geck, fundu Lands-Doomarann, baadu ad geimd se Grofinn heck, ganga so ella kann, Læresveinarner fyllter Fleck, flytie i burt Liikhamann.

Hermenn vopnada, hann let strax, hallda mioa sterkann Vord, þar vakte inn til Prid ia Dags, Pioodenn su Illsku hord. Drottinn reis upp til Diirdar Hags, fra Daud um hegar ur Jord, og sannrar Guds Diirdar Samfelags; se honum Packargiord.

Gleym þessu ecki Saal mijn sæl, soddann vel merkia skallt, Sonurinn fyrir sekann Præl, saklaus leid þetta allt, slijkri hanns Elsku hroosa og hæl; af Hug og Munni snialt, Sigur-Vers Christi siing og mæl, sætt fagnandi avallt.

Liwfaste Jesu Lof se þer, sem leidst þann sara Deyd, hvar med þu hefr hialpad mer, ur hættre Kvol og Neyd, lat þu mig jafnann lifa sem ber, Lasta-bond af mer greid, Elsku-Fadm þinn, þess Oska eg her, ysir Saal mijna breid. Amen.

## Ut af Upprisu Historiunni.

Ton.

Ton, Gædskurijkasti Grædari minn, etc.

Hiartad fagnar og Hugur miñ, Herrañ Jesus er upprisenn, Kool þo ꝏ Krosse ætte, arla Suñudags er þad skied, adur eñ Sooleñ lijsa réd, af Guds Dijrdar Almætti, þijdur, frijdur, Engill kemur, Kraptiñ fremur, klaart eg greini, af Grofiñi veltir þeim stoora Steini.

Jardskialfti mikill skedi þar, skærasta Lioonta Engill bár, Vardmeñ þa sodd-añ sau, Otta miklum yfir þꝏ sloo, Afl og Styrkleika fra þeim droo, lijka sem dauder lꝏu, þegar, Vegar, Lioosid skapta, Lijffins Krapta, loksins feingu, heim i Borgena hriggver geingu.

Hofud-Prestana hittu señ, hermdu oll þessi Tijdindiñ, hinir þeim hetu Gaafum. Seged ad Lærisveinarnir, sooktu Lijkhamañ burt med ser, þegar ver þreyttir svꝏfum; hradir, gladir, Giølldid þyggia, þar ad hyggia, sijdañ sogdu, lijka sem Judar þeim Raadinu logdu.

Adur eñ Daguriñ upprañ klaar, wtgeingu af Stadnum Kvinnur þriꝏr, Maria

Maria Magdalena, Moodir Jacobs hiñs miña var, med þeim lijka Salome þar, þær hugdust Christo þena, hriggvar dyggvar, Lausnarans villdu, ad liwfri Skylldu, Lijkid smyria, hvor ried adra þa hlioodt ad spyria.

Hvor mun burt vellta hordum Stein? Hindrar sa oss a marga Grein: Þegar sem litu þangad, opiñ stood Grof, enn Engill var, alkvijtu klæddur Lijni þar, Hrædsla ried Hiartad fanga, hlioodar, moodar, hriggvar Kviñur, sagde svinnr, syrgid egi, upprisiñ Jesum eg ydur segi.

Kviñurnar gladar gengu heim, Grædariñ Jesus mætte þeim, segandi: Verid sælar, þær fellu siidann fram til sanns, og Fætur kystu Lausnarans, hañ ried hijrlega ad mæla: Eg bid, ad þid, miljnum blijdum, Brædrum þijdum, brætt þad iñid, i Galilæa þer fyrst mig siñid.

Magdalena a medan fer, og fliott þangad sem Petr er, og Johañes mz honum, sagdi Lijkhamañ sælastañ, sem hvor-

orgi eg ne fiña kañ, burt-tekiñ væri hann
vorum: Brædir, Systrdir, undrast þetta,
er þad fretta, og ain Tafar, wi þeingz-
ad gengu nu oll til Grafar.

Fyrstur Johañes framkom þar, for-
nam ad Grefin opin var, Petur þa greidt
iñ gengur, sau þar logd Lijn-Klædinn
mióvk, lyka og Jesu Sveita-Dwk, For-
undran af þvi fengu, allskiott, og fliott,
aftur snua og þvi trwa, ollu ad soñu, burt
muni Lijkid borid af Moñum.

Ærandi Maria wti stood, iñ i Grofina
horfdi Fliood, Englum tveim gaf ad
Gætur, vard hun nu hrædd, og vidleit þa,
Vaktarañ Gardsins hugdist sia, hañ spyr
strax, hvad hun græti? Hun kvad, hellst
þad, miñ Herra þijdur, Hiartans blijdr,
her fiñst egi, Efnid Sorgar eg þad segi.

Hafir þu borid hañ burt med þer, bid
eg ad Herra segir mer, so eg hañ þeingad
sæki, Madurinn svarar: Maria, Meist-
ari sagdi hun aftur þa, ei leyfdi at ser tæki,
oll Hryggd og Styggd, snijst i Gledi,

skiott

skiovtt þad skedi, er Christum kendi, heim til Postula hana sendi.

Hun kom strax og þeim kunngiordi, Christur af Dauda risiñ se, Adburdi alla sagdi, hinar Konurnar hermdu med, hefdu þær lijka Jesum sied, Lijfs og i limsu Bragdi; Þetta retta, Villu hieldu, Hug siñ hrelldu, Herrauns Sveinar, Sioonhverfingar þad sogdu einar.

Til Emaus geingu einir Tveir, uñ Herrans Pijnu tala þeir, þad skedi a þessum Deigi, eñ so tilbar sem seigi eg frá, sialfur Jesus nalægdist þa, þo ad hann þeckti eigi, haň spyr, Hugkyr, hvada Hialid, Hryggdar-Talid, hafid Brædur, Cleophas ansar med klockri Rædu.

Ertu eiñ so Okendur Mañ, i Jerusalem ad Giorning þañ, sem er fyrir skomu skedur, veitstu ecke? Eñ haň spyr ad: Honum Cleophas sagdi þad, Jesus, sem oss var medur, hædstur, ædstur, af spadooms Ordum, og Gædsku-Giordum, fyrir Gudi og Moñum, a Krossi deyddur,

Þad sialfir sonnum.

Eñ nu i Morgun ærla vijst, ædur eñ feck af Deigi lijst, Kvinnur fra oss wtgeingu, lifanda sogdust lijta hann, lijklegt Þad engum virdast kañ, Felmtur Þvi allir feingu, Heimska, Gleimska, kvad Þæ bæda, Kongur Dæda, keñdi sijdañ, Christur so hefde hlotid ad lijda.

Alla Ritning wtleggia ried, opnadi Þeirra Hugskot med, Skriftina gloggt so Filia, Kauptunid allir nælgast nu, nær Þvi endud var Leidiñ su, gæanga liest leingra vilia, beiddu, neiddu, Christ ad bijda, kvædu liida, æ Kvolldid nærsta, iñ med Þeim geingur Milldinn Hærsta.

Settist til Bords og Braudid Þar, blessadi sem hañs Sidur var, og sijdañ ad Þeim retti, bædir i senn hañ Þektu Þæ, Þeirra Sioonum hvarf burtu fræ, Harmi ur Huga letti, hradir, gladir, Postulunum hinum, Herrañs Vinum, her fræ sogdu, eingañ Trwnad Þeir æ Þad logdu.

A somu Stundu Þad so tilbar, sialf-

ur Jesus var komiñ þar, og midt i Midid stendur, þeim Ofkar Fridar þessu nærst, þa var Dyrunum aftur læst, sia let at sijnar Hendur; Eñ þeir, þvi meir, urdu fegnir, Ottaslegner, og þvi trwa, Græt riedi ollum i Gledi sinna.
Ecki var Thomas þa med þeim, enn þegar seirna hañ kom heim, þeir sogdu allt hid saña, alldrei trwi eg, hañ ansa ried, utañ ad Nagla-Foriñ sied; fari med Fijngri kaña, lidu, bidu, Atta Dagar, Dijrd so hagar, Drottinn sætur, ad luktum Dyrum kom misldur, mætur.
Hia þeim stood Herrañ hijr i mid, her nærst Thomam so ræddi vid, og vill hann verdi gladr, i Naglaforiñ laat Fijngr þinn, stiortt legg mer Hond i Sijdu iñ, vert ecki vantrwadur: Drottiñ, Gud minn! sagdi dyggur, Trwar-tryggur, Teijburinn stjdur, aftr Jesus þa ansar blijdur.
Sañlega Thoma trwder þu, Tilsijnd mijn þessu olli nu, og eg eñ framar segi: sæll er sa hvor mig sier ei her, samt þo af
Hiarta

Hiarta treystir mer, Huganum so hliooda megi. Fleiri, meiri, Jardteikn hrein, fyrir sijnum Sveinum, sijdar giordi, oll þo ad greind her ecki verdi.

Vid Genezoreth Vatnid breitt, voru þeir þa ad Fiskedraatt, eñ sig opiñberadi, Petur adspurdur þrisvar þar, þvi jaatadi, sem vonlegt var, ad hañ Jesum elskadi, bijdur, þijdur, Lijfsins Brauđi, sina Saudi, Simon fæddi, um hañs Dauda og Utfør rædđi.

Fiorutiju Daga Drottiñ ried, dvelioast her Lærisveinum med, eptir Upprisu dijra, til Himna sijdann hedann, stie, hira Hond Fødurs Almættugre, situr vor. Hiælpinn hýra: Amen, Amen, allar Tijdir, Loss Lijdir, Lausnarann gooda, hvøjum skal jafnann Heidurinn bioda.





# Annar Parturenn.

Jnehelldur nockra Gudrækelega og Andrijka Psalma.



## FYRSTE FLOCKUR,

Sem hefur i ser tvo Nijárs Psalma, Eiñig Kvølld og Morgun Lof-saungva, og eiñ Sioo-Ferda Psalm.

### Nijárs Psalmur, kvedeñ 1652.

Under þessum Nootum.



Arid hijra nu hid nija, Nædar good-
þrauter læte fra oß flija, farge Sorg-



ur sende Lande voru Gud,
um, ende Grand og eyde Naud.

Alla



Alla fylle Glede-Gædum, Gædska og



Myskun Drottens blijd, i fastre Ast og



Frid af Hædum, stoduger stædum, oss



hann blesse Ar og Sijd.

Jesu prijsad Nafn eg nefne, nijtt Ar betta komed Heime, Vijge er best, stryke Verk og stofnud Efne, styrdie, græde, auma Geyine Mildeñ mest; Barn umsorna,

dijrum Dreyra, dreyfi yfir Hiortuñ mædd, Synda-Grand og Fared fleira, fiær-ad keira, virdest Dijrdeñ Gædsku-gædd.

Nijtt Ar þetta gledelegt greide, Gud af Hædum vorum kæra Keñedoom, Saude fæde, Lijdeñ leide, ad life i Hoose, giore og lære Verkeñ froom, Hiordeñ verde hlijd-ug Radum, hollum ollum þeirra mest, vere flugs ad frijdum Dadum, Frid og Nadum, wt so ræteft Vondskañ vest.

Yfir-liwfa-Menn af minnist, Millde-Valldur Drotteñ Mattar Herra hær, Sida prwder Sannleik kynnest, Synin-um þioone, liette Pratt og Brædeñ sær, oll i Stilling Logeñ lage, liwfer gæfir froo-ma vid, Lasta sijst þo Veige væge, hneige Hage, ad gooder Lijder finne Frid.

Rauner Hioona miwkust mijke, Mysk-un ferska Grædarans Lijda fyrr og sijd, Polged helgad vake, vijke Vijled, Boled, Naudeñ, Kvijde, hverfe Strijd, Born eñ eiñig blijdur næde, og Blessun vissa late fæ, Faderiñ Dada i Fridar Rade,

leide

leide a Lande, med Lijfe og Gæfu, stopra og sina.

Vor Glede Ared hijra, ollum Heilum gefi vafið J.sus kær; Men og Kvinur kiæra, skijra, Christi Ast þeir liwsa hafed fyrr og nær, undir Hende hvijsled sæler, Heilla fullre Drottens her; engvan Angurs Kuled kæler, Taal ne tæler, þan af hende hulen er.

Ofs nu blesse Grædarenn goodur, og Gæfur liwfar sijnar hreinar einnig med; Landed, Lodur, gæde Groodur, gæfe se Loft, ei pijne neinar Plagur Fed, neytum ætijd lijtelæter, Lofed gesum Drottens Rad, i Gude blijdum kætunst kæter, mætast Mat er, holl þau aller reine Rad.

Kaste vestu Kostum Lasta, Christur bestur, hærstur, mestur Foolke fra: Vijst so Traustet festum fasta, fyrst og sijdst þeim glæsta Geste ætijd a, Ast þijdasta Brioost ei bræste, byrstur Piooster horfen se; aeistum Lasta Guste freste, Losta Lester, flester nærsta falle i Hlie.

Unne sannur ofs og blesse, ollum Heillum



fylle

ſolle ſæll Emanuel, i Kvijda, Naud og Kroſse hreſse, þa Kvilla-fullum vill ödæll her vina Viel; Sviñer Meñ og myndug Kyende, mœttugann Drotteñ lofed tijdt, hönum einum oſs afhende, Amen; ſende, ydur JESUS Ared blijdt!

## Annar Nijárs Psalmur.

Ton, Pæck ſe þer good giörd, etc.

Ared nijtt nu œ, i Nafne Jeſu ſæta, byrjaſt blijdt; Þu þœ, þeſs vel ſkylder gæta, ſegiaſt vijdt, ſw mœ, ſælu Fregnenn mæta, ſem Böl kann bæta.

Gud og Mann, Mooder, Mey i Heimsinn fædde, vorn blijdañ Brooder, ſem beſt öll Meinenn grædde, Heimſins hann Piooder, helgre Bleſsan gædde, þo œdur Eymd mædde.

Foolke Frid hreinann, feck af Dijrdar Mætte, og Gud vid Einann, allt Mañkyned ſætte, Sælu Sid beinann, ſijnde og Hiartad kætte, Brot Synda bætte.

JESUS hañ heiter, Hiœlp og Frelſun Lijda, Sælu ſannveiter, og ſvipter öllum

um Kvijda, um Logmaals Ban breyter, Blessan gefur frijda med Mystkun bl.jd 1.

Nafn þad sett sanna, Sælu og Glede sterer, Hormum Hættanna, haalega forterer, alla Ætt Manna, endurlijfgar, nærir, Sorg þaa ei sterer.

Ared nijtt Nafn þitt, Naadar Herran goode, gefe oss blijdt, Gagn sitt, i glodum Fride bioode, naakvæmt, þijdt, vid Naud kvitt, so notkist Manne og Flioode, Laan og Lijfs-Groode.

Himen, Laad, Haf, Flood, hveria Skepnu og eina, Foldar-Saad, Fiaar-Siood, og Frioofgun Landsins hreina, blesse Naad Guds good, og Græding veite beina, aan Moods og Meina.

Kyrkiu-Stiett kæra, Kennemenn i Lande, laat oss rett læra, Lifnad sinn hver vande, so uppsett skæra, Sanleiks Skin lioomande, stillt jafnann stande.

Skickun Lands-Laga, Lids og Stioornar Raada, Yfirmanns Aga, til ædstu Heilla Daada, virdest hans haga, Hondinn Lijknar braada, er ein allt maa naada.

Hioonenn, Hiw, Born bliʃt, Bæe og Lijd um̃ Stunder, Hond Jeſu, fræa frijd, fride æ allar Lunder; Vor ſe trw Vernd Fijd, Vængium̃ Drottenns under, Lijfs læungar Stunder.

I Hæuſka og Hriggd kvölldum, Herrann Jeſus væge, i Otta og Bluggd elldum, Aſtenn Drottens hæge, i Strijde og Styggd kvoldum, Styrk veite, ſo næge, og allt vel læge.

Vid Hreckia Hæd-Syndum, hlijf oſs Jeſu blijde, fræ Hugabræd-blindum, Bræde, Heipt og Nijde, Glæpa græa-lindum, Gudleyſingia Lijde, Roog, Ræne, Strijde.

Himins Hnoſs ſnialla, helgaſt Meyar Sæde, oſs geyme alla, fræ Ovina Vielræde, kuñe æ Kroſs falla, ſo kreinkia Hiartad næde, Guds Næd þad græde, Amen.

## Morgun Pſalmur.

Ton, Eirn Gud Skapare allra ſa, etc.

Af Morgna þegar ærla uppſtæ, eins æ Kvollden̄ þæ hvijlaſt æ, gef eg mitt Lijf

Lijf og lijka Ond, liwfe Jesu, i þijna Hond.
Sealen hvijlest og huggast niijn, Herra Jesu, i Benium þijn, bid eg fætasta Blood- id þitt, blesse og helge Lijfed mitt.
Christe, sem þolder Kvol og Pijn, keyp- ter mer Frid med Bloode þijn, i Voku og Svefne vert mer hia, vernda mig ollum Hæsku fra.
Guds Engla Skare skijle mer, so skade mig ecke Diofla rner, i mijnum Krosse og Medlæte, minn Drottenn Jesu hia mer se.
Hvert helldur life her eda dey, Hiartad mitt vid þvi kvijder ei, gladur þvi mijna gef eg Ond, Gud Sannleikans, i þijna Hond.

## Kvolld Psalmur.

Med. Hinna Lag.

Lyknsame Gud og Herra hær, hvers Valld og Makt um Eilijfd stær, ver bidium i Jesu Nafne nu, Naadar-Heyrn þinne til vor snu.
Lioosed Dagsins enn dregst oss fra;

domu Naatt Myrkre yfir broa, Lijkhameñ Hvijldar leita ser, Letter Piñingar Svefnenn er.

Þackargiord blijda Born þijn nu, biooda þer oll med sannre Trw, þockneſt þer, Fader, Foorn ſw vijſt, fyrer vorn Herra Jeſum Chriſt.

Lof ſe þer Gud fyrer lideñ Dag, Lijkneñ þijn good vorn aumañ Hag, verndad hefur fra Hriggd og Neyd, Hæſtaſemd Lijfs og brædum Deyd.

Forlaat þu oſs nu Fader kær, Fiollda Synda, ſem giordum vær, leind og openn-ber Afbrot vor, afplaane nu þijn Gædſkann ſtoor.

Erfide vort og Viñulag, ver ſem nu hofum giordt i Dag, eſter ſerhvers Mañs Embætte, i Jeſu Nafne bleſſad ſe.

Gef oſs nu Drotteñ gooda Noott, geym og vernda fra Kvol og Soott, fra brædum Dauda og beiſkre Pijn, bevare oſs alla Nadenn þijn.

Freiſtingum Dioful s fra oſs ſnw,

For-

Foriniur vondar burtrek þu, Oværdar Drauma Ogner þær, alldrei lát þu oss koma nær.

Lát þu oss Dagsins Liooman hiñ, lijta ad Morgne, Drottenn minn, so med Fagnade þioonum þer; Þess nu af Hiarta ossum ver.

Gotz, Heidur, Lijsed, Æru og Ond, O Drottenn Gud! i þijna Hond, befolum ver med traustre Trw, til vor Nád þinne jafnann snw.

Guds Foðurs Millde, Gæðska og Nád, Guds Sonar Jesu Hiálpar-Nád, Guds Heilags Anda Hlijfdinn traust, hiá oss stadnæmist endalaust.

Heilog Guds Þrenning hlijsi oss nu, og hallde fast i rettre Trw, ad hliootum sijdañ Himna Vist, Hiálparann fyrir Jesum Christ.

Amen þess aller ossum ver, Amen, vor Drotteñ, Lof se þer, Amen se, þad sem eg nu bad, Amen: Jesus bænheyre þad.

## Annar Morgun Psálmur.

Lon, Eilijft Lijfed er æsselegt; etc.

Lofi þig Drottenn Himeninn hær, og heiloa, Engla Sveit, allar Þiooder umm allar Krær, allstadar Lands umm Reit, þvi Sannleikann þinn og Myskun mest, Millde og Tignenn klær, yfer oss ollum er stadfest, eilijfa Tijd og Ar; so er og lijka Sæla mijn, sonn og fullkomenn Skylldaþijn, Lof Drottenns bæde hatt og hlioott, a hverre Stundu ad tiar, alldrei lat þer þad gleymast gott, gesens sem let þig sa, hann hefur uppa nijtt i Noott, Naudum þer biargad fra.

Lyfadur sertu lifande Gud, fyrer lidna Nætur Stund, og þad Verolldenn upplioomadest nu af Dagsins Fund; Soolenn i Heide skæru skijn, Skined sitt veiter hlijtt, Fuglar Loptsins, Fiskar og Dyr, fagna þeim Geisla blijdt; Skoog Tren Grosenn og Liliur Lands, lifna og glediast vijst til Sanns; þetta til Dijrdar Drottenn þer, daglega hvoriar allt: Æ hvad skylldara mun þa mer, ad mikla þitt Nafn mvallt, Guds ad Lijking sem giordur er, og gefed Lyfed sijalft.

Lof, Heidur ser og Packargiörd, Prest-
ingenn edla bliid, vilingur skal eg vanda a
Iord, varande Liifs um Tiid; þu hefur
jafnann Hialp mer veitt, wr Hæska og
Daudans Piin; fra Myrkrunum til Lios-
ofsins leidt: losud so Gædskan þiin! O-
vina minna Abl og Slægd, afmæd hef-
ur þiin Guddooms Frægd, eñ þo þeir byg-
ge Efned vandt, med allre Svika Præ, ad
mer þu Drottenn gætter grant, Grimd
þeirra bægder fra, rangferdugra sem
Randum kannt, raska, so hverge na.

Sem mig i Nott fyrer Liikn og Lid,
letst niota Mattar þiins; Eins nu i Dag
um Nad eg bid, i Nafne Frelsara mijns;
hindra þu Umsatt Andskotans, sem elskar
Liige og Mord, so verde fiist ad Vilia hñs,
Verk miin, þeankar ne Ord: Gefdu mer
Drottenn Hiartad hreint, hyxa og stunda
lioost og leynt, Laga-Bod þiin, sem letst
oss sia, og Liissins Braut eg skil; i Dag
og hvern Tiid hedan i fra, hallda þau
giarnann vil, þvi David seger sæla þa,
sem þar hafa Listing til.

Bleſſa þu, Gud, mitt Kvinnu Kler, og kæru Born æ Lænd, bleſſadu allt hvad hefe eg her, hloted af þiñe Næd: Bleſsa virdſtu miñ Bwſkaps Hag, Birgder og Matar Faung, bleſſa Utvege og Biñulag, ſo verde ei Hegdan raung; Bleſſunar ædſte Bruñurenn, bleſſadu mig i ſerhvert ſinn; Se eg æ Ferd uñ Sioo eda Jord, ſit, geing, edur kirr ſtend, Hond þijn yfir mer hallde Vord, Hæſka ollum fræ vend: Gef ſo med þijdre Þackargiord, þijn Næd ſe vidurkend.

J Forſioon þijna og Fodur-Hond, fel eg nu, Drotteñ, her, Lijkhama minn med Lijfe og Ønd, Læn allt og Heilſu-Kior; mitt ſo eg agte Starf og Stiett, ſtioornadu miñe Lund, her med einig mig hallde rett, æ Hryggdar og Glede Stund; Chriſtne-Halld mitt, Kærleik og Trw, med Krafte þijnum, O Jeſu! auka jafnañ og ebla virdſt, uppæ þad Sæl mijn froom, dijrdarlig fæe fyrer þer birtſt, þa ſer þu ad hallda Doom; kom Herra Jeſu, kom ſem fyrſt, klaart gior allt Synda-Groom.

Daud-

Daudañs þegar eg nælgaſt Nætt, uæ-dugur vert mer hiæ, nu bærilegri Bana-Soott, benda virdſtu mer þæ, J Fadmi ſælum ad ſofna þijn, ſæti Fadir, eg kijs, Ottalaus er þa Onden mijn, og eilijf Sle-di vijs: Sijdañ i Lambſins Lioma klær, leſi hun þig uñ eilijf Ar, þu ſm ad ellt nu Ordi ber, einn Gud og Þrenning hæ, ſamhuga allir ſijngum þer, Sigur-Vers Himnum æ; Valldid þitt Dijrd og Ær-an er, Amen, Haleluja.

## Aũar Kvolld Pſalmur.

Med Himna-Lag.

O Jeſu þer ſe Þock og Lof, fyrir þijna Aſt og Naadar-Giof, vel heſur þu miñ veikann Hag, verndad og geymt uñ þennann Dag.

Slijſni engiñ mig henti her, Hlijfd Drottinns mijns þad veitti mer, Satan fieck ei ad orka neins, ſem Ond og Lijfe var til Meins.

Jeg vil fyrir þad Jeſu kær, jæta þer Vegſemd fiær og nær, af Hiartans Muñi

Hug og Raust; halldist þijn Virding Endalaust.

Eilijfan bid eg almætt Þinn, æstkæri Jesu Herra minn, fyrigef oll mijn Afbrot noot, i Dag sim fram da eg þer a moot.

Dags Viñann mijn, sem drijgda eg her, Drottin minn goodur þocknist þer, ebli þijn Blessan allt mitt Raad, auk mer Von, Trw og Kærleiks Daad.

Geymdu mig, Drottin Gud, i Nott, fra grimmum Voda, Kvol og Soott, so Ovin gieri mer engin Grond, yfir mer se þijn Hialpar-Hond.

Luckyna, Heilsu, Laan og Fed, Lijf og Salina eirninn med; Umsioon þinni eg allt þad gef, Ohræddur sijdan ligg og sef.

J Drottins Nafni eg hvijlist her, haf þu O Jesu! Gæt a mer, eg fel mig þinni Elsku en, og alla þijna Christna Meñ.

Lof se Fodurnum lesid og tiaad, Lof se vors Herra Jesu Raad, Lof helgum Anda allan Tijd, Amen; Lof se þer Preñing blijd.

## Dagleg Andvarpan.

Ton, Hvor sem ad reysir hæga Bygd, etc.

Heilla liwfaste Herra minn, Hiartans Utvalldra Yndi, uppveki mig nu Andinn þiñ, Endurnæring so findi; Eg er Manneskiann alsaurgud, afplæna þad lifandi Gud, gef mer Gladværdar Lyndi.

Asetning miñ og Ydiulag, eg þeinkte ad lagfæra, þer til Dijrdar ad þiona i Dag, þad veitstu Nædiñ skæra; Eñ hvorninn hefi eg aum Mañkynd, æreitad þig med margri Synd, þad vyrdstu ad lagfæra.

Lijfdaga miña Lijtinn oll, lækna þu, Drottiñ blijdi, og mig hvijtfæga eins og Mioll, aungvu svo Meini kvijdi; æ mig æ̈ngrar af allri Root, ad eg giordi þer syndga moot, Heilla fadirinn frijdi!

Læingar mig nu af Lijfi og Saal, Lausn hia þer, Drottiñ, fyña: Þer er nu, Fadir, meir enn Maal, Meinaña Boot ad vinna; Sætasti Bruñr Svolunar, sianad Herbergi Vellistar, lææt mig þer Lofgiord iña,

Gradi nu oll mijn Synda-Sær, sign-

adar

adar Jesu Undir, Himneska Fødurs Hondiñ klaar, hun se yfir og undir: Okvijdiñ er þaa Ondinn mijn, i blijdum Naadar Fadme þijn, lijdi so Lijfsins Stundir.

Rettlætis fagur Kvistur klaar, Konungur Dijrdar sæti, Engla Fegurd um eilijf Ar, Utvalldra Saalar-Kæti, allra trwadra Elska og Von, er Jesus Guds og Mariu Son: Gef þess eg iafnann gæti!

Innræt þu, Drottinn, Ordid þitt, i mitt Hiarta og Siñi, þad se Lijfdaga Livosid mitt, Lifnad so bæta kiñi; eftir þvi laat miñ greidast Gaang, i Giædsku þiñar og Naadar-Faang, þar so þer Þackir iñi.

Miskunar þiñar miwku Naad, mikla eg Æfi mijna, milldasti Jesu Meyar-Saad, miñstu aa Barn-Kynd þijna, fadma mig ad þer Fadir miñ, fyrir Eingetna Soniñ þiñ, laat ecki Lidsemd dvijna.

Set eg nu allt mitt Traust og Trw, til þijn, miñ Jesu goddi, ad mig af Astsemd elskir þu, og aadreifir þijnu Bloodi, æ medañ varir Æfinn mijn, wtbreida vil eg Lof-

giord

giord þijn, bædi hætt og i Hlioodi.
ANDVARPAN þessa, ædsti Gud, asljttu i Miskun þiñi; Himstod veittu i hverre Naud, higg ad Grætbeidni miñi; lættu mig ætijd lifa þer, lijka deya þa burtu fer: Lof þitt alldreie linne.

## Sioo-Ferda Psalmur.

Ton, Natturañ øll og Edle Mañs, etc.

Drettinn lijkusamur Herra Hreinn, Hiælpariñ aſlra Manna, þu sem ad rædur ølln eiñ, Aſtsemdar Milldinn soña, bænheyr þu mig, þess beidi eg þig, i blessudu Jesu Nafni, med liwfri Nad, og legg a Nad, uñ Lijfs og Sealar Efni.

Þijn Nad þad hefur so tiisett, ad ser hvor skillde læra, Embætte sitt ad yrka rett, og med Handbiorg sig næra, uñ Land og Sioo, eñ Lidsemd þo, lofadir þeim ad veita, sem treista þer, og sijdañ ser, sinnar Atvinnu leita.

Nu vil eg eftir Ordi þvi, i Trausti Nadar þiñar, a Hafsins Bilgiur fara frij, Fædu leitandi miñar; siadu mig nu, sæ-

tt

ti Jesu! so engin Hætinn grandi, til og frá hér, hiálpa þu mer, Hættu-laust aftur ad Landi.

Og sem þu giordir ædur fyrr, ostyrkvum Lærisveinum, þegar Storm-Vindur þeger kyrr, þaanade fyrir þer einum, so mijt mig, nær yfir sig, Aldan og Vedrid bleika, hafta þar á, og hugga þa, Hiartad mitt Trwar-veika.

Vardveittu mig og Veg minn greid, Vernd þijn yfir mer standi, frá beyskri Sorg og brádum Deyd, bædi á Sioo og Landi, Jesus minn trwr, Eymd allri wr, einn kanntu mig ad leisa, vertu mer nærst, þa her sem hærst, Hassins Bilgiur nar geysa.

Stooran Brim-Sioo og sterkan Vind, stodve þijn Milldin sæla, illra Stoor-Fiska ogna Mind, ei lát mig kunna fæla, Væng-gia Skioel þitt, fyrir Vardhalld mitt, vil eg mer giarna kioosa, so megi eg frij, af Særi því, Frelsan þína best hroosa.

Því vil eg leystur lofa þig, Lijssins um

Tijdir

Tijdir mijnar, þar heiloq Guds Born hallda sig, beidrandi Nadir þijnar; Þack-Offur eitt, i Veikleik reitt, virdtsu af mer ad þiggia, eilijf Nad þijn, og Armi sijn, umm mer iafnaun liggia.

Jeg geing til Skips i Jesu Nafn, Jesus minn hia mer bu si, helgra Guds Engla heilagt Safn, Hræckslu og Sorg burtdrijfi, mig sel eg þa, sem mer eru hia, mijns Jesu siaalfs i Hendur: verum til Frids, væntandi Lids, Vernd hans yfir oss stendur.

J Guds nafni og Otta enn, eftir hans Naadar-Ordi, Veidar-Færunum vil eg senn, varpa fra Skipsins Bordi, þetta mitt Verk, Mystunin merk, minn Herra Jesus blessi, veiti han mer, hvad Villd hanns er, Von mijn og Boon er þessi.

JESUS oss veri ollum hia, Auga hanns til vor siai, Hætta og Ognum hrindi fra, so Hætta ei granda nai; vort Hiartans Hws, helgi Jesus, hann oss i Fridi leidi, ossum þess nu, allir med Trw:

Amen,

Amen, ſe þad eg beidi.

# ANNAR FLOCKUR.

Jnnehelldur Heilrædа-Vidvörunar-og Bæna-Psalma, Christilegu Lijfерne Sidvijkiandi.

## Gylline A.B.C. Ur Þyſku utlagt.

Med Himna-Lag.

Aeinn Gud ſet þu allt þitt Trauſt, Adſtod mannlegri trwir lauſt, faſt ſtanda Drottinns Fyrirheit, fäſt valla Tryggd um Veralldar-Reit.

Beſt þinnar Æru geym og gæt ; Gerſeme ſu er harla mæt, ef hun þer ſleppr eitt Sinn fra , einginn er von til henni ad na.

Chriſtnum ſoomir ei ſaurugt Hial, ſerhvor ſinn Munn vel geyma ſkal, med Þogn ſig enginn fortalad feck, fiolyrdtum jafnann illa geck.

Deil alldrei vid þinn Yfir-Mann, elſka ſkalltu og virda hann, þann minni Hættar hæd þu ſijſt, Hefnd fær Drambſemi jafnann vijſt.

Effku Nægd af Audæfum ætt, aungvañ-veginn þig stæra mætt, þeink ad Laan Drottinns er þad allt, af þvi Reiknings-skap standa skallt.

Froomleika, Dææd og Dyggder med, dijrara hallt eñ Gull og Fed. Pa Heimsiñs Audlegd horfiñ er, hvort Siñ gott-Mannord filger þer.

Gef Olmusu, ef ættu Aud, og aumka þann sem lijdur Naud, Gud, i hvors Hondum Heill þijn er, hann mun lijkt af-tur giallda þer.

Hafi þer eiñ til Gooda giort, goodminn-ugur þess jafnann vert, Packarlaus Velgiord, þad er reindt, þwngt fellur Manni liooft og leyndt.

Hdinn vertu æ Ungdooms Tijd, Erfidi lær, þar kemur uñ sijd, uppskera mun þad Ellinn fyrr, sem Æskann nidur sædi fyrr.

Kært þo eirn læti i Eyru þer, ofmiog honum ei trwa ber, Munnuriñ stund-um mælir dætt, meinar þo (kann ske)

Hiart-

Hiartad flatt.

Luckan hvort hellldur moot eda med, mūnstu ad hafa stodugt Ged, fialldann er Upphaf Ending lijkt, oft gefur Rauninn Viti um slikt.

Med reidum Huga hondla ei neitt, hvad til goods enda villtu leidt, margur i Brædi Verk þad van, sem vard þo mest ad ydrast hann.

Nem þu og lær hvad nytsamt er, nær einhvor gott vill kenna þer, hyrda fatt um Heimskann Man, hin fær Virding sem meira kan.

Ofendt Mælefni alldrei mætt, wrskurda flioott ne dæma bratt, Klagandans heyrdu Sogn um Sinn, sijdann gæt ad hvad talar hinn.

Vragt og Hofmood þer hrind þu fra, Hefnd færdi morgum Lofst sia, lijtilatann Lands-Mana Sid, lat þer nægiast ad blijfa vid.

Olludum Hug, sem sturlar Styggd, stærri skalltu ei auka Hryggd, golldid

ma verda aftur eins, sem odrum giorir pratt til Meins.

Naupa sem sijst af sialfum þer, þo sijnist nockud giort sem ber, egid Lof jafnañ luktar vest, Lijfernid froomt ser hroosar best.

Siai þig vel uñ þvi Verølld er fla, von- dum Selskap þig sneidir hia, Guds- hræddum hallt þig giarnann ad, gott Nafn þer vijst wtvegar þad.

Tem þig ad elska Æru og Spekt, þo all- ir þig ei lofi frekt; so øllum lyndi eng- iñ Mann, Ord siñ og Giordir stilla kañ.

Ven þig alldrei med Agg og Roog, ad samanndraga Fiaarins Ploog, þad ferst med Sorg sem fæst med Synd, vid fridsamt Braud þer un og lynd.

Uppa Heims Aud og allt hvad er, all- drei þig reid, þad hverfr þer, sa mæ þvi halldast hyggiñ best, sem himnesk Gæ- di stundar mest.

Xerxes Konungur fordum frekt, forlet sig uppa Valld og Mekt, feck þo Mijn-

kun

kun og Sorg til Sañs, ſerhvor variſt þvi Dæmi hanns.

Yfir allt fram þu Ottaſt Gud, elſka og vird hañs heilog Bod, odrum Rad-hollur eirninn ſert, eins ſem þu villt ad þer ſe giort.

Zebaoth Gud oll veit þijn Verk, vert þvi Laſtvar hañs Makt er ſterk, ſlioota-ra ſtilliſt hootud Hefnd, eñ hin ſem er mz Framkvæmd efnd.

Þig lær ſiálfañ ad þeckia rett, þreyngſt ei helldur i neina Stett, hvad þu aſorma ad þvi gaa, Endirinn hvornig verda maa.

Æ Tijd miñſt a þinn Dauda-Dag, Doom ſijdaſtañ og Saalar-Hag, bid iafnann Gud ad geſa þer Naad, good og heilnæm ad ſtunda Raad.

## Hvad vera eige Athæfe Chriſteñs Manns.

Med Himna-Lag:

Ef þu villt gooda Fridſemd faa, Fiol-mælge alla varáſt þaa, gladt Hiarta

yfir

yfir goodu bijr, giarnann vert jafnann Lyndes hijr.

J Trwñe geym stillt og stødugt Ged, stunda þar hreinañ Kærleik med, eflaus se Bænenn, Yfirboot, Undañdrættarlaus klaar og flioot.

Yvrande fyrer þijn Afbrot sert, or vid Fantæka jafnañ vert, i goodum Verkum idenn best, illt ad fordast viliugur mest.

Fwslega goodre Hyrting hlijd, Hormung med Poleñmæde lijd, i Lantæde þijnu Lwfleik sijn, lijka se hæversk Skickun þijn.

Miwkleik i Keñing merkia lat, mæl vid adra med Spekt og Gæt, vitna þad eina, satt reint se, uñ serhvad dæmt med Rettvijse.

Þvi smordare siñstu her, Fiolmeñed sem þu meira sier, þvi heilrædare þig hverium tiaa, þeim sem meira liggur aa.

## Eitt Heilræda Psalmur.

Mai siingia nær sem: Eilijft Lijsed er æfelegt.

Vilier þu gediast Gude vel, og goodum Mønnum her, hreintrwad hafdu

Hiartans-Þel, og heidra hañs Nafn sem ber, Ord Drotteñs lær med allre Gæt, ydka meſt heita Bæn, Packargiord ſagra ſylgia lꝏt, Foorn ſw er einka væn, Huxun vondre þer þrittu frꝏ, henne gef alldrei Rwm þer hiꝏ, Illgreſis Fræged upp ſe rætt, ꝏdur eñ Friooſgun nær, ſke mꝏ, þad ſe vid Hꝏſka hætt, ef Hreckia Rootenn græ.

Ædre Meñ þer i Heidre hallt, hvern epter ſinne Stiett, Liwſlynde vid þiñ Lijka ſkallt, lꝏta i ſrame rett, glettſtu alldrei vid gamlañ Mann, grꝏhærdum Vyrding ber, forſmꝏ ei helldur ſꝏtækann, ſem froomur og meinlaus er, moodga ei þañ ſem mæder Styggd, Medaumkan ſijn þeim lijdur Hryggd, diarflega ecke odrum lꝏ, Avirding hañs ne Breſt, þu veitſt ei hvad þig henda mꝏ, haf Gꝏt ꝏ þer ſem beſt.

Fordaſtu þꝏ ſem fara med Smꝏn, Fals-Yrdenn, Hꝏd og Spie, Lꝏnleyſe, Slis og Lucku Rꝏn, Laun þeirra trwe eg ſe, Hootſindnenn ill er eingum þeck, at-

hyga jafnann þad, ske maa þu hafer Sky edur Fleck, ef skyllde þar grenslast ad, Vlaatur og Kieskne hæfer sijst, Heimskunnar Merke-þad er vijst, Klæm, Nijd og Hroop þu hata mest, hura um Maalshætt þann, froomlegum Sidum Samtal vest, sannlega spilla kann.

## Psalmur um gooda Samvitsku.

Ton, Dagur i Austre ællum, etc.

Hvad verdur fegra funded, enn Fridur og roosamt Gied, Angur vr Huga hrunded, Hiartad gladvært þar med? Jnbyrdes Elskann hreina, med Æru i hverium Stad, Heims Efterlæted eina, eflaust dæme eg þad.

Gladur villda eg þu værer, og vondu hiaa þig sneid, margt þo til Bøls þer bære, Bakmælug Tvngann leid; ef þinnar Æru gæter, alldrei þu kvijda þarft, sijdar þa sonnu mæter, sialf Lijgenn dofnar snart.

Laan Heims þig laat ei villa, Luckunne spart þu tak, antigna engvum illa, allra sijst þo m. Bak, oft einn ad odrum finnur,

þad ydkar hann sialfur mest; hver maa so hittast svinnur, ad hafe ei nockurn Brest?

Heilbrygde, Hiartans Kæte, her med Samvitskann good, Astvina Efterlæte, fyrer utann Trega og Mood, froomt Lijf og farsæll Daude, filgiast med rettu ad, af hverium Heimsins Aude, hellst villda eg kioosa þad.

## umm fallvallt Heimsins Lann.

Ton, Hvar munde vera Hiartad mitt, etc.

Allt Heimsins Glised, Fordilld frijd, Fegurdar Prial og Skraut, fallvallt, mein-slijsid, fyrr og sijd, flest ollum reynast blaut, allt eins og Fys i hvasse Hrijd, hverfur snarlega Braut, Luckunnar Blysed litla Tijd, logande, Ovart þraut.

Bloomleg Ækkunnar Edlis Art, sem Alldens Jurter beint, snemma upprunnar blika biart, burtvisna ad Kvollde seint, þeir Glede Brunnar þorna snart, þad hefe eg sied og reynt, Vatns Rooser grunnar hverfa hart, hverfur so Tijmenn leynt.

Lijkhams Heilbrygden hroosar sier, halld-

halldenn af øllum kær, hennar þo Tryggdenn af-slepp er, ovissum Tijma nær, Soottar Anstyggden bratt ad ber, Biwksterkum nidurslær, bleik Dauda-Sygdeinn sarbeitt skier, Svolsfogur Bloomstrinn skær.

Holldsins Frijdleikur, Fegurd klar, og Fragtenn Lijkhamans, sem Limed Sykur lausgad stær, Lijfed gledur til Sanns, allt eins og Reikur øll forgær, Asyndenn Hvarma-Ranns, þa liggur bleikur Bloodlaus Nar, búrt er Fordilldenn hanns.

Mannsins Lijf hraust er allra innst, i Ædum Hiartans bijr, miög þo Otraust og fallvallt finnst, fliootlega umm ser snijr, vidstodulaust þa varer minnst, sem Vindur burtu kijr, ad Lane hlautst, þvi laungum vinnst, Lysting Æsennar rijr.

Heims Audur sijnest Holldsins Art, harla-fagur til Sanns, medann vidklijnest Kroppenn Skart, kætest Gied sæviiss Manns, oftlega tijnest yfrid snart, ymist til Sioos eda Lands, hersnoggur vijnest Hugur hart, hrær er þa Genged hanns?

Margur hver reiſte um̃ Frooned ſtær, ſieck þeſs ei vered an, annar med Hreyſte Fiaar-Ploog fær, fer hinn med Viel og Raan, eitt El, einn Reyſte, ein Bylgia, einn Blær, burt ſneidde allt þad Laan, enn ſoa þvi treyſte er engou nær, utann þvi meire Smaan.

Verolldenn blijd ad Laane lier, inſtugt Gledeñar Hnoſs, Aſijndar þijd a Bake ber, beyſkañ Hormungar Kroſs. Luckann daafrijda lijkuſt er, vid lymſkañ Judas Koſs, beſt være i Tijd Meñ ſæi ad ſer, ſo hun ei blecke oſs.

Vold, Lene, Magt og Virdingar, vel margur droo ſer ad, Hoſdingia Drakt og Skrwda Skar, ſkrautlega tilſnickad, af ſkal þad lagt, og ecke par, aftar Daudeñ um þad, fraa allre Frakt an Ordloſs bar, wt hvern wr ſijnum Stad.

Hvad er Heims-Bloome, og giorvallt Glis, ſem gyrneſt Hollded a? Reikur, Hiegoome, ſolnad Fis, ſiwkande Lauf og Straa, ad mijnum Doome Slægd og

Slis, ſlær yniſt til edur fra, Skadſemdar Lioome, bæalad Blis, blindar ſkiott þann þad ſa.

Root allra Meina med ſer ber, Mamonſins Gyrndenn ſnaud, Heliar Slood beina Bykurenn ſer, burt fra Makt, Heſd og Aud, þad eitt alleina ovallt er, ad Ottaſt Drottenn Gud; Villtu ſlijkt reyna, hygg ad her, hvad hann þer ſialſur baud. Lattu þvi ſara Heimſins Hatt, Hollds Metnad Dreiſs og Priaal, egnd Daudans Snara er vid Gatt, ad þer niur dreiged Taal, medann þu hiara her enn maatt, hugadu umm þijna Saal, þar tak a Vara, þrijtt breatt, Piood-Brautenn Lijſſins haal.

## Umm Heimſins vondt Hattalag.

Ton, O Jeſu Edla Bloome, etc.

Hætta er ſtoor i Heime, hialpi oſs Drottenn kær, fra Satans Svikum geyme, ſo ecke glotunſt vær, reynd Blijda, Grand græde, greind Lijda Vandræde, leynd vijda Land-Mæde, a Loſt ſer aftur ſlær.

Diofuls nu Verolld veider, Viela-Nost morgum skæd, i Villu og Vantrw leider, Vondskann sw Pusund-ræd: Ar slijkur, ser flaker, flaar svijkur, hver vakir? Haar, rijkur, sier Saker, sijdar Gud af Hæd.

Otal Illgiørder brooast, ei timer leyna Pvi, Tryggd og Trwskapur sooast, takast vpp Vielræd nij, flest ollum fast spilla, fest Gollum, Last Villa, vest kollum, Kast Kvilla, komed Heimenn i.

Straff sijnest stoort fyrer Hende, stofnad mieg til pess er, Von aa Ressingar-Vende, i Voxt pvi Hættann fer, Voild Syndar, gilld granda, Giolld Kinda, sijld standa, Olld blinda, villd Vanda, vestla lioost ei sier.

O Jesu æstkæraste! Idrunar gef oss Tijd, hirt ei pitt Foolk med Haste; Heyr mig nu Gædskann blijd: Eyd Hættu, Raad rettu, Reide sættu, hriaad gledtu, Neyd bættu, Naad settu, Nauda piaadum Lijd.

## Hverſu Heimureñ ſe fanúſtur,
og Guðs Vernd og Váráteckt ſe það alleina, er Meñ. ohætt mege reida ſig uppaa.

Ton, Blijde Guð, Bornum þijnum ei gleym.

Hiartað kátt, hoſum þo gaunge ſtyrdt, liooмar breitt, Liooſed þo nu ſe myrkt, þetta ſtutta ſtendur Stund, Strijded ver reynum, þrijtur Siwtar-Lyndes Lund, linar þaa Meinum: Hvad er það, her ſem ver lijdum, hiaa þeim Stað, hvers ſeinna bijdum? Flioott ber að, Fagnaðar-Tijdum: Heimuriñ aumur ei er hañ Guð, laatum hañ fara, jaa fare hañ ſiñ Veg, með Filgiurum ſijnum, laatum hañ fara, jaa fari hañ ſinn Veg með Filgiurum ſijnum.

Þo ætte Mañ, alls Heimſins Raað og Vollð, eins er hañ, Oviſs hvad ſkedur i Kvollð, Laaned, Viner, Mynt og Ment, Meiðrða Prakteñ, i einu Raunar rænt og lent, rienar þaa Makteñ; ſaa i gær, ſat upp með Kæti, i Dag ofær, dottinn úr Sæte, engvu nær, af þvi Meðlæte, Kroppur er ſlippur graſeñ i Grof; hvar

er þaa Brooder, hvar er þaa allt, Hofd-
ingia-Dæme ? Hvar er þaa Brooder,
hvar er þaa allt, Hofdingia-Dæmed?

Saa sem Traust, setur aa Drottenns
Naad, efalaust er honum fyrerspaad, midt
i hættre Meina-Raun, Myskunar niitur,
Diirdar verda launud Laun, Liifed nær
þriitur; Herranns Kross, hanns Barna
Soomenn, her skal oss, Hiartans velkom-
inn, diirsta Hnoss, Diaasn, Priide,
Bloomeñ, hvser Hriised kyssum Christs,
þad er vor Heidur, þad er vor Priis, ad
þola og trwa, þad er vor Heidur, þad er
vor Priis, ad þola og trwa.

Ef eg maa, eignast miñ Jesu þig, hvad
mun þaa, helldst mega bresta mig? Heim-
ur aumur, Giall og Gull, i Glotun þo
lende, eiliis Sælañ oll og full, er mer i
Hende: Hvarma-Tær, hreint af vill þer-
ra, Diirdar klær Drotteñ vor Herra,
Hiarta-saar, Sorgeñ mun þverra, dreisse
og kiasse nu Verolld vond, ad þeya, þreya
og þola vel, þad yfirviñur, ad þeya, þreya

og Þola vel, þad yfirvinnur.

## Veralldar Þecking, umm Heimsins Brigdlynde.

Ton, Oll Lucka Glere lijkust er, etc.

Hud bid eg nu ad gefa mer Rǫd, og greida minn Veg til besta, hann einn mun veita Hialp og Dǫd, hvad sem mig kann ad bresta, þo Þorfenn se bæde þrǫng og brǫd, og Þyke oft Bootum fresta, ǫ Drottenns Myskun, Millde og Nǫd, mitt skal eg Traustid festa.

Manleg Adstod er misjafnt trygg, marger fǫ slijkt ad reyna, Trwskapar Lundenn laus og stygg, Leid geingur þeige beina, velltur ǫ ymsa Hlid umm Hrigg, Hamingiu Lǫned eina, þǫ i Naud biarga helldst eg hygg, hægt mune verda ad greina.

Lok sins sæ eg nu fullreint þad, hvad fallvollt er Heimsins Blijda, bindur sig ei vid Stund ne Stad, Stilling eingva kann lijda, margann ber sama Brunne ad, blind geingur Luckann frijda, eingenn fær sialfur ǫkvardad, efter hveriu skal bijda.

Þeir sem mer voru Vinir fyr, vel þaa, geck einusinni, þegiandi sneida þvers um Dyr, þeim er eg lidiñ vor Miñi; ef allir sigla sama Byr, Selskap er Von Mañ finni, hinn maa vel bijda i Hofnum kyr, sem hellt Mootvidrid inni.

Þar sem eg hugde Hælis mer, i Horninu miñi ad leita, ad eingu athvarfi ordid er, Ull sookt i Hwos til Geita, Root so oft Avoxt rañañ ber, sem ræktud er med Sveita, heppiñ þykist saa sialfum ser, af Sundinu kann ad fleyta.

Gott er ad glediast godum med, Gamans og Lids ad niota, brátt kañ þo Selskaps Brooderned, burt sem Vatns Straumm sliota; þa Heilsañ bresti, Heill og Fed, Horn-Augum Vinirnir skioota; eigid Gagn-hvijlir eftt aa Bed, eñ Astinn legst til Foota.

Margskonar Angist margann sker, misiafnt vill oft adbiaata, af audmiukti Gedi og Þanka þer, þad vil eg Drottiñ jaata; Verdskulldan mijn eg veit þad

er, verst slijks i engañ Mæta, nu bid eg þig Naudstoddum mer, Nææd og Vægd frāmi læta.

Einmana stend eg uppi Þui, aungvum hef til ad segia, imsum Hormungum halldinn i, hvoria Stund mꝏ eg þreya, æ Drottinn skal miin Naudsyn nij, tæ og jafnann ser fleya, læt mig af ollu Færi frij, i Fridi, minn Jesu! deya, Amen.

## Bænar Vers i þessa Heims Andstreymi.

Ton, Ef Gud. er vþs ei sialfur hiaa, etc.

Drottinn læt mig i Heimi her, haga mer Christelega, so eg rett jafnann Piooni þer, og þokniſt alla vega; Hræsni, Agyrnd og Ohlijdne, alldrei i mijnum Huga se, forda mer Tiooni og Trega.

Gudlausra Maña Glæpa Sid, gef þu eg varast kinni, halld þu mer Sannleiks Vegiñ vid, Viel Heims mig eingiñ giñe, hoflug Rææuglætra Reffing bræd, rett sai alldrei til mijn nææd, minnstu mijnri Myskun þinni.

Fraa Hiartans Blindne og Hardydgi, Herrann Jesus mig geimi, af allri hreinsud Saurgan se, Saal mijn i þessum Heimi, Hugskot og Eyrun opna þu, ebl med mer Hlijdni Von og Trw, Ast þijn mer alldrei gleymi.

Þess eins af Hug og Hiarta eg bid; Herra minn Dijrdar-sæli! hreinañ Lærdoom mer halltu vid, Hollds Skynsemd mig ei tæli, hvorke Mannanna Valld ne Villd, Vinatta blijd, ne Heiptiñ gilld, fraa þijnum Sannleik fæli.

## Bænar Psalmur mooti þeim andlegu Ovinum.

Ton, Ovinanleg Borg er vor Gud, etc.

Leid þu mig Gud, og laat mig ei, leidast af sioalfs mijns Þootta, medañ i Heimi her eg þrei; halid þu mer vid þiñ Otta, hvort eg geng ut eda iñ, añastu, Jesu miñ, Lijf mitt, Samvitsku, Saal, Sioon, Heyrn, Ord, Verk og Maal, Flærd Diofuls ret a Flootta.

Lawsleega eg þer legg a Hond, Lijf og

Heil-

Heilbrigde miina, Lijthamañ tok og einig Ond, undir Trifeste pijna, þu mit, jaa, eigdu her, allt Valld og Raad a mer, oll er Umhyggia mijn, af mer komin til þijn; so læt eg Sorgir dvijna.

Hvad skal Mañeskiañ mogla þo, moote Skapara sijnum, Adams Fall þetta undirbieo, nu allskyns Swt og Pijnum: Jesus allt bætir Bøl, burttekur Sorg og Kvol, honum a Hond mig fel, hañ leysir Þrautir vel, hægir had Huga mijnum.

Mijn Saal hvad villtu mæla þa, mooti Skickun þijns Herra? Arf-Syndiñ gamla eykur Þraa, og eñ er forþent verra; af þvi eg allt of-frekt, mjook þaa fornu Sekt; so munu i Heimi her, Hollds Prioots Kraptarner, hlioota ad hiadna og þverra.

Endurlausnareñ Lof se þer, Lausn fyrer Ondu miñar, leystur fra Dauda lioost eg er, Lausn fyrir Pijnu þinnar: Leystu Lausnarans kær, Lastanna Flækiur þær, sem Saal mijn situr i, Sorg hefi eg, Herra, af þvi, sigt mig Lausn Synda fiña.

Leystu mig Jesu, Løstum frá, Lijf mitt aduren dvijnar; Lausniñ blessada leys mig þa, lioost fyrir Undir þijnar: Leys mig Lausnariñ trwr, sa lina Mootgængs Skwr, þegar þer þikir Mæl, þer fel eg Lijf og Sæl, Ord og Athafnir mijnar.

Sæluhiælpariñ sæll Jesu, Sæl mijn þer ætijd fagnar, Sæluñi Myskun sijndir þu, Sælinn þer Lofgiørd magnar: Sæl miñi send þu Lid, Sæla mijn þess þarf vid, Sæliñ er sivok og mood, Sæl uñ þitt blessad Blood, er Sæluñi sætast gagnar.

Naudhiælpari miñ Herra hijr, hiælpa nu Prœli þijnum, Hiælpræðis blessud Heilliñ dijr, hiælpa þu Veikleik mijnum: Hiælparlaus hiari eg her, ef hiælpar þu eigi mer, hiælpa moot Holdi og Heim, hiælpa moot Ovin þeim, sem veldur Vijtis Pijnum.

Lijfgiafari miñ og Lykniñ fijn, Lijfsins virdstu vægia, Lijfs-Fadir ertu, Lijfe mijn, Lijfs Meinum gior þu hægia, Lijf og Sæl

lof

loft þig, Lijfs medann sparar mig, Lijf mitt lifir i þer, lifdu Jesus i mer, lijfi lꝍt Lostu ei bœgia.

Fel eg mig nu i Fadminn þinn, Frelsarinn Jesu sꝍti, þo ad mer þreyngi Anaudin, Eymdir Heims og Mootlꝍti, verdi þinn Vilie a mer, vil eg þad lijda her, Lidsemd mer leggur þu, lꝍt mig umm sijdir nu, lifa med Lijfsins Mꝍti.

## Jdrunar og Bœnar Andvarpan.

Ton, O Jesu Edla Bloomi, etc.

HUVER minn Drottinn dijri! dapur eg kem til þijn, Andi þinn œ mer stijri, annsgrud er Saalinn mijn, grꝍd hana, Gud eine, Ged-pijna ad linist, Blood Sonar Grid greine, grꝍtinn kꝍtist Syn.

Synd mijn er Sandi fleiri, sꝍrir þad Hiartans Grunn, Naad þijn er miklu meiri, mer er hun ordinn kunn, so fridi sijþꝍadann, sꝍ goodi œ blijdur, su Gledi se Gꝍda Sijdu af raudum Brunn.

Mannleg Hiaalp mest vill þrioota, mikil þa Naudsyn er, þvi flij eg til þinna Foota,

þinni

goodre Lund, gefa a minne Dauda-Stund.

Obedeñ tookst mig ad þer fyrst, eñ nu sær bid eg, Jesu Christ! med Trwar-Hende þer hallde eg fast, Herra læt mig ei vannegnast.

Strax sem mer leystest Tunga og Toñ, til mijn barst Lijssins Fæda soñ, af oldum Kaalfe; Saal mijn saug, Sonar Guds Blood, þa dijrstu Laug.

Heilagur Ande hærstur þiñ, hañ er sa Tryggda-Hrijngureñ, sem Sonur Guds mer gaf a Hond, gistast þa villde minne Ond.

Skijnande Fot mer skeinkter þa, ad skollder mig i þeim aptur sia, bæde a Dægre Dauda mijns, Drottenn! og Rijke Fodur þijns.

Eg kem her fram med eckert mitt, Elskuge minn, i Brwdkaup þitt, sia þu mig nu i sialfum þer, saurugt er allt hvad med mer er.

Eg hef so marga Mædu-Stund, mænt

efter þijnum Dijrdar-Fund, findu mig nu, þo ligge eg lꝍgt, lꝍt mig ei alltijd eiga bꝍgt.

Sie eg þig gegnum svart eitt Sky, sitiande Himna-Rijke i, eg ꝍ nu til þijn ecke lꝍngt, eñ mer fiñst bæde hardt og strꝍngt.

Eg stid mig nu vid Orded þitt, Erfide liettu Drottenn mitt, Sꝍlen mijn er af Þwnga þiꝍd, þyrst og sꝍr-hwngrud epter Nꝍd.

Deyf þu nu alla Daudans Raun, Drotteñ gialld mer ei verdug Laun, efter Nꝍd þiñe miñstu mijn, Minningeñ lifer i mer þijn.

A Nꝍd legg eg mig Lausnarans, Lijfed mitt er i Vallde hañs, Sæd-kann þijn hefur Grꝍt miñ stillt, Gud far þu med mig sem þu villt.

Honum einum eg hef mig geymt, hañs Nꝍd hefur mer ecke gleymt; Raungood-ur sem mer siest nu hiꝍ, Sꝍlu miñe mest liggur ꝍ.

Lijfsins Panteñ mer lagder þañ, lif-

ande Anda heilagañ, Signeted þad med sañre Lyst, setur ï Hiartad JESUM Christ.

Eñ hvar Jesus i Briooste bijr, bijr þar Guds Naad og Elskañ dijr, Synda Kvittun og Myskun Manns, mitt Lijf þad er i Vallde hanns.

Eg treyste Gude uppa oll, Ord hañs og helld þau miñ Grundvoll, Jord og Himnar forganga greidt, Guds Ord þo skeikar alldrei neitt.

Eg vil i Drottne sofna sætt, Samvitsku Strijded allt er bætt; Dauda-Hallde eg Drotteñ þrijf, dijrstur gef þu mer eilijst Lijf.

Kved eg i Gude goodañ Lijd, gledelegar þeim Nætur bijd, þackande ollum þeirra Styrk, Þioonustu, Hialp og Kærleiks-Verk.

Astkæra þa eg efterskil, afhenda sialfum Gude vil, Andvarped sier hañ sart og heitt, segia þarf honum ecke neitt.

Unne hann ydur Kærleiks Koss, kvitt

oa hañ eiñ ad Filia oss, gef þu þad Jesu Christe kær, kœter hiœ þer ad finnunst vær.

Hlijdne alla og Þoled þijdt, þad veite Gud mer harla blijdt, gefe mig kvittañ Gud og Meñ, grœtbæne eg þess af Hiarta enn.

Lweñ Anda eg legg nu af, Lijfenu rœde sœ sem gaf, i Sœrum Jesu mig sætt iñ vef, Sœlu mijna eg Gude gef.

Lœttu mig Drotteñ lofa þig, med Lofi þijnu hvijla mig, Liooſed i þijnu Liooſe sioa, lofa þig strax sem vakna mœ.

Lœttu mig færa fram þau Hliood, fyrst og seinast miñ Drotteñ Gud, ad lofa þig i Heidre hœr, halldest þijn Dijrd um eilijf Ar, Amen.

## Um Sælu Himna-Rijkis.

Ton, Mikille Farsælld mœter sœ, etc.

Upp, upp mijn Sœl! og ferdunst fws Fridarens Borg ad nœ, þar Ununar sanileg eru Hws, ækeleg Gude hiœ, þa Sœluhiœlp œn Enda er, œn Daud

Lijf eilijft, ꝏn Hriggdar Gledeñ alldrei Þver, Angre þar verdur svipt, ꝏn Myrkra Lioosed alldrei dvijn, eilijfur Glede Dagur skijn, Veikleike, Otte, Vijl ne Prꝏ, verdur ei nockur þar, Harmureñ engeñ mæda mꝏ, Mein eckert snerter þar, gefe ꝏs ad odlast Glede þꝏ, Gud Drotteñ allsheriar.

Madur engeñ her mæla slijkt, meta ne skynia kañ, hvad Fagnadar-Lijfer farsællegt, frijdum i Himna-Rann; Herrañ vor Christur sw er Sool, sem ad ꝏs forklarar, lioomum þar fyrer Lambsins Stool, sijka sem Stiornurnar; Augnañ sijfelld er þar List, ꝏlijta Herrañ Jesum Christ, Syruñ vor heyra ætijd sꝏ, ilmande Raddernar, sætur Hlioodfæra Saungur sꝏ, sijfelldlega hliooмar, glader æ sijngium Gofgun hꝏ, Gude til Eilijfdar.

Þar er prijsud i þeirre Borg, Preñingeñ Guddooms hꝏ, heñar uñ giorvoll heyrest Torg, Hlioom-fogur Musica, þar er ꝏn Elle Æskañ hrein, ꝏn Veike Heil,

saũ klœr, þar snertir ei hid minnsta Mein, Mann neirn um eilijf Ar, allri Drottins med Engla Hird, Utvalldir bwa i þeirri Dijrd, hvorrar Glediñar Yndid er, Augliti Guds ad sia, Odaudlegleika i klædder, og eilijfri Birtu hæ, Coronu þeirra hefur hver, Hofdum Gull-legar á.

Ohvad farsæl ad er su Tijd, þa erum komnir þar, og eftir lidna Heimsins Hrijd, heitum Guds Borgarar, frá allri Mædu Eymd og Prá, erum þá Lokfins frij, Heidur, Dijrd, Gledi hlioomar þá, Himnesku Landi i: Æ hvad Fagnadar Vegsemd vor, vera nun hæleitlega stoor, þá Endurlausnariñ afhendir, Astkærum Fodur oss; Fadmiñ á mooti blijdt breidir, bijdur fram Altar-Koss, Hriggd og Mæda þá horfinn er, Hornung og Tæra-Foss.

Heilagann Selskap hofum þar, Himneskum Gudi med, Forfedur, Spámenn fullglöggt vær, fáum þar alla sied, æskelegustu Umgeingni, eiñig þeim hofum hiá: Sijfellda Elsku og Samþycki, sijna hvor

odrum med, asamt Okendum ollum gloggt, Astmenn vora ver saum þeckt, Frændur og Vinir finnast þaa, Fagnadi medur þar, bloomleg og so med Blijdu sia Borninn sijn Foreldrar, Fagnadar verd: Fundur sa, fremur enn Mann skiniar.

Þessi ad odlast Gædinn good, gef þu mer Drottinn minn, fyrir þijns Sonar blessad Blood, Bænheyrdu Prælinn þinn; þegar Heiminum fraa eg fer, frels mig af Andar-Pijn, frijd. mijna Saal i Himna Her, Herra med Bloodi þijn, ad eg Utvolldum ollum med, eilijfar Þackir saai ted, Andlit þitt blijda unn þu mer, Alvalldur Gud ad sia, eininn ad bwa um Alldir, eilijfar sialfum hia, so eg aan Enda sijngi þer, Sanctus og Gloria.

Endir Psalmanna.





# Pridie Parturiñ.

Jñihelldur ymislega-Kvedlijnga til Gudrækniß Jdkunar og Sidboota.



## FYRSTI FLOCKUR.

J hvorium finnast nockrir Andagtugir og Gudrækilegir Kvedlingar.

### Sumar-Vijsa, kvediñ 1657.

Ton, Blijdi Gud, Bornum Pijnum ei gleym.

Vetrar Tijd, vijst er umlidiñ nu, farsæl blijd, Blessunarfull var sw, Drottinn veitti Lijdum Lid, uñi Lædid og Grædi, Heilsu, Frelsi, Fædu, Frid, flest Nædar-Grædi, Meñ og Hiord, mættu ei neina, um Loft og Jord, Land-Plægur reyna; Þackargiord, þui skulum greina, Astar listilegum Hug; Lofadur hafi gefid oß Gud, Gæfurnar sijnar, Lofadur hafi gefid oß Gud, Gæfurnar sijnar.

Vedur miwk, Von Maña framar þo, enginñ Fiwk, allsialldañ Frost eda Snioo, reyndi Kindiñ Raunar nein, rett mœ so jña, hvorke Horku-mun ne Mein, mœtt-um þvi syña, þarsleg Nœgd, þvi var œ Foodri, Skiool og Hœgd, Skepnunni moodri, þessa Vœgd, þockum ver goodri, Mynskun ferskri Drottinns dœdt; Hafi nu Lof og Heidur Gud, œ Himni og Jordu, hafi nu Lof og Heidur Gud, œ Himni og Jordu.

Sioonum af, Afla og Fiski-Ploog, Herrann gaf, hverium so dugdi noog, Vodinn brœdur Vinds og Unns, vard aungvum skœdur, stijrdi Ferd til Sands og Sunds, sœ ollu rœdur; Um vora Sveit, Soottinn allsœrsta, bad eg veit, þiœd hefur nœsta, miwk og heit, Myskuñ stœrsta, Drottiñs, veitti oss Vœrd og Vord; Helgum, prijsum, beidrum Gud, med Hiarta og Sœlu, helgum, prijsum, H. G. med H. og Sœlu.

Hvor sœr tiœd, taliđ og œiknad greidt,

soddañ Naad, sem oss feck Drottinn veitt, Stundleg, Andleg Gædinn good, Gaafurnar flestar, af Fodur blijdum þæði Piood, þær allra bestar, Kynning hanns, klaart Ordid sañ, Fridiñ Lands, Farsælldir Mañ, Andskotans, Akesd ried banna, enginn Pvijngun liwdi Lijd; Lofadur se vor liwfi Gud, fyrir Laanid sitt gooda, lofadur se vor liwfi Gud, fyrir Laanid sitt gooda.

## Ungmenna Bænarkorn at Morgna.

J þijnu Nafni uppvaknadur,
Er eg Jesus Gud og Madur,
Lof se þer fyrir Lijf og Gædi,
Lijkhamans Heilsu Fot og Fædi,
Og allt þad þijn Opreitt Milldi,
Aumum mer til-leggia villdi,
Bid eg þig, minn blijdi Herra,
Blessan þijna ei laat þverra,
Hegdan minni a hvorium Degi,
Halltu a sonnum Dygda Vegi,
Laat mig niosta Ungdooms Ara,

Er þu barst i Mañdoom klœra,
Gef uppfrœde Æsku mijna,
Andi þinn fyrir verkan sijna,
So i Otta og Elsku þinni,
Avoxt goodann fœra kynni,
Hlijdni, Trigd og Trwna biarta,
Tendra og nœr i mijnu Hiarta,
Ad mer so m͞z Alldre hrönnum,
Aukist Naad hiaa Gudi og Moñum,
Heims og Satans Hreckia Snorum,
Hrind frœ mer, so ei Overum,
Mig Ogœtinn i ser festi,
Edur dragi i Synd og Lesti,
Vernda mig frœ Voda öllum,
Vondum Dauda og Slisa Föllum,
Englar þijnir ad mer gœti,
Amgvium so eg Meidslum mœti,
Mitt Verklag og Mynkun þijna,
Mer lœt vera Unun mijna,
Auk mer Skilning Orda þinna,
Eru þau Lampi Foota minna,
Gef mer jafnann gott ad lœra,
Goodlyndum vid alla vera,

Varsærum i Velgeingninni,
Vongoodum þo Raunir finñ,
Liwfi Jesu! med Lijfi og Ondu,
Legg eg mig i þijnar Hondur,
Þar vil eg fwo ad Lycktum lenda,
Lofadur sertu utan Enda!

## Ungmeña Bænar korn at Kvolld.

Nu vil eg eñ i Nafni þijnu,
Rœdugi Gud, sem lettir Pijnu,
Mer ad minni Hvijlu halla,
Og heidra þig fyrir Gædskualla,
Þœda af þer æ þessum Degi,
Þvi er skylldt eg gleymi egi,
Enn þad mœ eg aumur jœta,
Angri vafiñ sijta og grœta,
Moodgad hef eg margfalldlega,
Milldi þijna Guddoomlega.
Utslett mijnar Syndir svartar,
Sundurkramid lækna Hiarta,
Afþvegid i ædsta Floodi,
Endurlausnarans Jesu Bloodi,
So eg kvittur sofi i fridi,

Saal og Lijf af Engla Lidi,
Umkríngd, Satans Illsku Hrecki,
Ogn og Slægdir synni ecki,
Blessa Hws og Hvijlu mijna,
Hiaastod laat mid werkia þijna,
Þa mun Adsookn illra Anda,
Ei hid minsta kunna ad granda,
Laat mig þeinkia a þessu Kvolldi,
Þad eg liki i veiku Hollde,
Brothætt Gler og Boolann þunna,
Brotna snart og hiadna kunna,
Þu eirn Gud skallt þar um raada,
Þijnar knij eg a Dyr Naadar,
Af mijns Hiarta innsta Grunni,
Andvarpa og bid med Munni:
Þegar eg skal seinast sofna,
Saal vidskilur, Fiorid dofnar,
Hiartans Fadir i Hendur þijnar,
Hverfa laat þa Ondu mijna,
Holld i Jordu hægt laat blunda,
Helgra so þad bijdi Funda,
Og upprisinn ad eg vijki,
Inn med þer i Himnarijki,

Þar mun eg Þusund Þackir færa,
Þer se Losgiørd Prijs og Æra, Amen.

## Hugvoot.

Þaa Hwsiñ brunnu i Saurbæ, 1662.
Ton, O Jesu þer! æ vilium ver, etc.

Gud er miñ Gud, þo geysi Naud, og gangi þañinn yfir, Syrgia skal spart, þo mista eg margt, mattugr Herrañ Lifir; af Hiarta nu, og hreñi Trw, til hañs skal eg mer venda, Nafn Drottins sætt, sær Bolid bætt, blessad se þad an-Enda.

Gaf mer hañs Naad, gott Lucku Raad, ad Glediñar efldist Kraftur, friaalst a hañ þaa, og fullvel maa, fraa mer taka þad aftur, hañs Hiaalpiñ bliid, a hvorri Tijd, Huggun virdest mer senda, Nafn Drottins sætt, sær Bolid bætt Bl. s. þ. an E.

Took ei Diøfull, ne Tøfrafull, Tilvilium burt Eign mijna; þaa siñ þad gaf, sviftti þvi af, Sorgiñ skal øll þvi dvijna, mitt bætir Raad, med Milldi og Naad, hanns Nyskun Þusund-kenda, N. Dr. s. s. B.

Gud eskar þañ, sem hirtir hann, hef eg

eg þa Trwna vissa, vil eg med Hind, veso
Barnkind, a Vond Fodurſins kiſſa,
Heilſu, Lean, Fed, og Heidur med, hañs
Raad vil eg afhenda. N. Dr. ſett, f. B.
Afmer þo Fed, og Audlegd med, Od-
um ſo gaanga megi, græthæni eg nu, goodi
Jeſu, gleymdu mer þo alldregi: Lat mig
hia þer, þa hedann fer, i Himna Sælu
lenda. Nafn Drottins ſett, ſæt Bolid
bætt, bleſſad ſe þad an Enda.

## Idrunar-Viiſur

Med Lag, ſein Hugboot.

Gud a Himnum hiælpi mer, og huggi
Saalu mijna, ſærdann Huga Sorg-
inn ſker, Syndir Hiartad pijna, þungañ
Kvijda Briooſtid ber, berſt vid Þanka ſii-
na, mædiſt Hollo, eñ ſeingiſt Liif, laangve-
ſælt er Harma Kijf, ei vill Angur dvijna.
Laungum giora mer laangſamt Ged,
kidnar Efi-Tijdir, helldur ſeint eg heſi þad
ſied, Heſudum Saaliñ krijdir, Daudans
Ogn og Otti med, oft a Holldid ſtrijdir,
Hugraun ſw er harla ſear, Himna Fadir-
inn

iñ Dijrdarklœr, bœti Bolid um̃ sijdir.

Getinn var eg i Sekt og Synd, so mig Mooduriñ fœddi, eftir fornri Adams Mynd, eins og David rœddi, þvi er Sálsiñ siwk og blind, Sorgiñ Hiartad mœddi, Hollds Natturañ heimsk og villt, herfilega med ollu spillt, i Vondsku œfram œddi.

Sneña hefur Bernskañ bleckt, Barnsdooms Hug og Siñi, ædur fyrri eñ feck þad þeckt, frœ þvi skijra kynni, ad styggia Gud en safna Sekt, Sœlu ad glata miñi, var hid fyrsta Verkid mitt; volldugt Jesu Nafnid þitt, Boot œ Bolinu vinni.

Leingi hefur þo leitast vid, Lyknar Faderiñ millde, ad leida mig frœ Lasta-Sid, so Lyfid odlast skylldi, mz Polinmœdi og bliddri Bid, biarga mer hañ villdi; eñ eg sloo þvi ollu i Vind, Elskañ Hollds og dœrleg Synd, Heimsku Hiartad fylldi.

Illa hefur mig Holldid giñt, og Heimsins Listuñ brœda, Satan sloo mer Svika Mynt, siest nu fœtt til Nœda, þvi er Hiartad bleckt og blindt, þad bid eg Gud

ad næda; þreyi eg vid þañ Hryggdar Hag, harmar bædi Noott og Dag, Sæliñ Prautum þiæda.

Gud miñ hef eg raunar reitt, til Reide og Heiptar Brædi, hañs millda Næd og Polged þreitt, med Priootsku og Synda Ædi, griña'yfir mig Glotun leidt, gamall og ungur bædi, Samvitskañ þvi særd er mijn; sæti Jesu, Gædskañ þijn, hana huggi og grædi.

Uñ sijdir þo eg setie mer, Synda Gyrnd ad deida, Hollds Nættturañ þrioost og þver, þængad vill mig leida, sñ tijdast ædtamdi hun ser, æ Topunar-Vegiñ breida; Vilieñ ecki fær sig frij, Fiotrum Daudans vefst eg i, særlega mig þo meida.

Hvorke ber eg til Hug ne Dæd, Hiælp mer siælfum veita, einkisnijt eru øll mijn Næd; þo ætti eg þeirra neita; Jesus miñ hefur nooga Næd, nu vil eg þængad leita, hañ mun aumþr æ mer sicæ, efslaust fæ eg Huggun þa, sem Bølinu kann ad breita.

Þo stærre virdest Misgiord mijn, einn maa eg siaalfur greina, mer er Jesu Myskun þijn, milldust, Gædsku hreina, hiaa þer alldrei Hiaalpeñ dvijn, helldst mun eg þad reina, her vid hresȝest Hiartad mitt, heilagasta Blooded þitt, er Lækning miña Meina.

Þo genged hafe eg Glæpa Stig, gaalaus morgu siñe, elskad Holld eñ hatad þig, af Heimsku og Ofdyrsd miñe, goode Jesu, minstu aa mig, i Myskunseme þiñe; særd og lemstrud Saaleñ er, sijndu Vægd og Lijnkind mer, so Hiartad Huggun finne.

Mig hefur Diofull Saarum sært, og sviked af Lifsins Vege, kraanka Saal vt Klædum fært, hun kañ sier biarga eige, ollum Krapte tapad og tært, Tiooñ ad mest eg sege; O þu sæte Samaritan! sinadu aumur aa þeirre Smaan, so eg ei vt af deye.

Gotzid þad eg þaade þraatt, af þiñe Gædsku Hende, Illsku Gyrndeñ eydde braadt, aftur Drafed sende, hef eg lenge hungara maatt, heim nu loksins vende, taktu vid mer Utlegd vr, eins og Fadereñ Hiarta

trwr,i Briooste um̄ Barn sitt kende.

Lækna fyrer þin̄ dijran̄ Deyd, Drotten̄ Sꝍlu mijna; saarleg Synda Fioturenn greid, so finne eg Huggun þijna, villtann Saud a Vegen̄ leid, Vargen̄ laat ei pijna, opna Hug og Hiartad mitt, so heilagt Naadar Liosed þitt, skært mege þar skijna.

Hia Fodur þijnum legg mer Lid, Lausnaren̄ Jesu goode, so eg fin̄e Saatt og Frid, sviptur þwngum Moode, audmiwklega eg um̄ þad bid, af Ast og Taara Floode, seigdu eg se orden̄ ein̄, af ollum Syndum klaar og hrein̄, þvegenn i þijnu Bloode.

Framdar Synder forlaat mer, Faderen̄ Dijrdar-sæle. Fyrer dijrstan̄ Jesu Dreyra her, af doprum Hug eg mæle, kastadu ei fra Augum þer, Omaklegum̄ Þræle, efldu Lijf med Ast og Daad, so alldrei mig fra þin̄e Naad, Freisting nockur fæle.

A Fyrerheiten̄ heilog þijn, af Hiartans Grun̄e eg treyste; fra Diofle, Synd og saarre Pijn, Son þin̄ kær mig leyste, med

beyſk-

beyskre Kvøl og Bloode sijn', Barn sitt falled reiste, Herra Gud mer hiælpa þu, so halldest eg vid retta Trw, þo frekt mijn Satan freyste.

Heilags Anda Hiælpenn þijd, Hug og Sine geyme, so alldrei hedann af Illsku-strijd, yfer mig Syndenn sveime, hær dep-ur nælgast Daudans Tijd, Drottenn Sælu geyme. Veite mer þijn Lyknenn Lid, leid i eilijfann Dijrdar Frid, hedann wr þessum Heime.

Allar Skepnur allann Tijd, af ollum Hug og Roome, sijnge þer Lof sem Ver-elld er vijd, volldugur Drottenn froome, Jesu Christo Þockinn þijd, þar med føg-ur hlioome, hellogum Anda og Himne og Læd, fyrer Huggun, Styrk og Lyknar-Ræd, aukest Æra og Soome, Amen.

## Vijsa Drott-kvedenn.

Hver græder Hiartans Kvijda?
Hver kætte Menn grætta?
Hver Søott hindrar hætta?
Hver snaudann vann Dauda?

JESUS huggar, Hryggd loogar.
Hann græddе Sorg, mædda.
Hann Lijfe Heilsu gefur.
Hann snaudann van̄ Dauda.

## Samstædur.

HJrdt mig ei i Heiptar-Bræde,
Himna Gud, ne Grimdar Æde,
Engenn Madur af þad stæde,
Effyrer þvi verda næde,
Viela-Smidurenn vill eg træde,
Veg a. Fordæmingar Svære,
So Efasemdar Synd mig hræde,
Ovæntingen̄ lijka bæde,
Athugaleysed ødrum Þræde,
Oftraustenu fram̄ sy læde,
Eilijfan̄ ad mer Elldeñ glæde,
Andlegur er þar Daudenn skæde.
Eg bid þig Mariu Meyar Sæde,
Mijnar allar Sootter græde,
Fyrer blessada þijna Venia-Flæde,
Bitra Pijsl og Krossens Mæde,
Þitt Rettlæte þa mig klæde,
Þegar eg skal fyrer Dooms Atqvæde,

Holld

Hollð þitt se mitt Heilſu Fæde,
Hvert eg i Kvolldmaaltijd ſnæde,
Sijdu-Vatn þitt Saar mijn þvæde,
Synd þo aa mig Kaunum blæde,
Ande þinn mig aa þad fræde,
Eilijflega eg Lof þitt ræde,
Ovin gef mig alldrei hæde,
Yfer mig þinn Dreireñ blæde,
Um Daleñ þo eg Daudans ſlæde,
Diñaañ, eda Eldeñ væde,
Ei laat rata i Oræde,
Endalaus mer, veittu Gæde!

## Nær Madur gengur i ſitt Bæna-
Hws einſamall, þaa maa hañ falla aa Kne, leſa ſo eina af þeſſum Bænum i ſ...

O Herra Jeſu Chriſte; Eg ſtend fyrer þer aalijka, ſem faatæk Skepna fyrer þeim fullriika, mig hwngrar og þyrſt[er] efter Rettlætenu, hugſvala þu nu hryg[g]u Gede mijnu, innra virdſtu Mañe[sk]iu mijñ ad næra, mer af Himnum Naad [og] Hiaalp ſo færa, hryggur Madur aa Hnianum fyrer þer ſtendur; Hiartad brei[t]

eg wt og mijnar Hendur, heyr nu Drottinn Hiartans Bænena mijna, fyrer Heilagleik og Forþenustu þijna.

O Jesu Christe! Eg stend fyrer þer sorgmæddur, sem eirn Præll fyrer sijnum Herra hræddur, hladeñ Syndum, eins og Fuglenn Fiødrum, fell eg tijdt i Glæpeñ eirn wr ødrum, eg em kafiñ Otal Synda Hrijdum, eins og falle Daggar Dropar tijdum, eda sem Korn ā Siafar Sande breidum, so er mitt Hiarta þaked i Syndum leidum, hreinsadu mig i þijnu blessada Bloode, biarga mer so Himna Kongureñ goode, fyrer þijn Saar og albloodugar Under, afplaana þu allar mijnar Synder.

O Jesu Christe! eg stend fyrer þer alleina, eins og giørde syndug Magdalena, siaadu eg em Glæpe mijna ad grata, giarnañ vil eg og fegeñ af þeim laata; fyrergef mer Saker og Synder mijnar, Sonur Guds, fyrer Blood og Under þijnar, laat mig þinne Hialp og Naad bijhallda,

him ber lifa sijdan um Allder Allda.

O Jesu Christe! eg stend fyrer ber og kalla, sem Astvin timir odrum Anaud alla, kendu i Briooste um Barned bitt sem grætur, biarga bu mer Heilsugiafaren sætur, hialpe mer bijn heileg Forbenusta, hugge mig bin Ande og Orded besta, frelsa bu mig burt wr Daudans Dijke, so dijrka mege eg big i Himnarijke.

O Jesu Christe! eg stend fyrer ber og Hnicanum, sem Stoorbrota Madur fyrer Doomaranum, eg er sekur vid Gud min Foduren sana, eg er aumastur allra Veralldar Mana, lækna bu mig Lijknar Konguren goode, lauga bu mig i bijnu heilaga Bloode.

O Jesu Christe! eg stend fyrer ber harmande, eins og Barn sem grætur undann Vende, Foduren gooda min hef eg reitt til Reide, rett er bo han straffe mig og hijde: Brooder min goode! bid eg big gott til leggia, blijdka Hiartans Foduren ockar beggia, og skal giarnann hlijden hedann

añ af vera, og hvad eg megna yckar Vil-
ia giora, af illu lꜳtq, ydkande þad gooda,
efter þvi sm̃ Guds mijns Bodord hlieoda,
hiꜳlpe mer þar til heilagur Guddooms
Ande, ad hedann af eg Rꜳd mitt betur
vande, giore og tale, Gud miñ, so þer
lijke, gef ad eg lofe þig her og i Himna-
rijke.

O Jesu Christe, eg stend fyrer þer
Hug-gladur, Lausnareñ goode sañur Gud
og Madur, sem hefur fyrer þitt heilaga
Blood og Under, hreinsad af mer allar
mijnar Synder, Drottenn miñ þinn
Daude og Forþenusta, frꜳ Daudans
Krafte hefur oss endurleysta, frꜳ Reide
Guds, frꜳ Satan, Synd og Bøle, frꜳ
Sorgar-Guste, Vijtes Kvol og Hele, eñ
sꜳtt oss vid Himna Fødurenn hærsta,
Hiꜳlpar Klædenu skrijdder þvi enu besta,
afrekader oss aftur Lijfed saña; O þu
goode Heilsugiafareñ Maña, lofadur sertu
Lijf og Liooséd skæra, Losed skulu þer
allar Skepnur færa, lofadur sertu Lamb-

ed, Guds æstkæra, Lofed se þer Heidur, Dijrd og Æra, Amen.

Hiartans Fader, so sem þu skijler ockar Lijkhama med Klædum, so i skrijd þu Sælena med andlegum Astar-Gædum, so sem þu soostrar Holldeð fyrer þad lijkhamlega Borded, svo Sælena fyrer þitt Guddoomlega Orded, so sem þu gefur ad vor Augu sia þañ dijrdlega Dags Lioosma, so gef Sælen̄ skode þañ skæra Himna Blooman̄.

Drotten̄ miñ bevara þu mig og allt mitt, wte og iñe, i hveriu Siñe, Stødu og Stræte, Sess og Sæte i Voku og Svesne, stijr og stioorna ollu mijnu Raade og Efne, Amen.

Gudhimneskur Fader vardveite mig, Jesus Christur blesse mig, Fride og frelse mig, heilagur Ande helge, hugge og upplijse mig, Engell Drottenns mijns seyme mig, Naad og Myskun Guds mijns leide mig, Orded hymneska Herrans fæde mig, Milldenn Skaparans mijns fæde

mig, Rettlæted Lausnarans mijns klæde mig, Blooded Frelsarans mijns græde mig, Heilagleike Drottens mijns giæde mig, so engeñ illur Ande hræde mig.

Gud miñ gefe mer ad sofna vært og roett en þessare Noott, og ad eg mege aftur vakna med gladværu goodu Hiarta, so eg christelega lifa mætte, bæde leynt og liooſt, til Mæls og Giorda, Gude mijnum gedfelldur, eñ Naunganum goodgiordasamur, allt Guds Laan rett tijdkande, mijnu Embætte adgætande, og i ollum goodum Dygdum mig ydkande.

Gud læte mig lifa christelega i Dag, bæde leint og liooſt, til Mæls og Giorda, mitt Embætte med goodre Gætne ad wtretta, Gude mijnum gedfelldur vera, eñ Naunganum gott ad giora, allt Guds Laan rett ad tijdka, og i ollum goodum Dygdum mig ad ydka.

Drotteñ miñ gefdu mer gott og froomt Hiarta, under Sooluñe, yd ufamlann Lijkhama i Dags Byrtuñe, hæga Hvijld og

og sæla Svefn Roo og Roottuñe, bidiande Munn i Hormungeñe, lofande Twngu i Velgengneñe, idnar Hendur i Naudþurfteñe, o-latar Fætur i Embættesgaunguñe, so eg allt mitt Dagfar christelega framleida kunne, Amen.

## ANNAR FLOCKUR;

Iñehelldur Heilræde og Uppvakningar til christelegs Framferdes, sijner eiñig hversu fallvallt og lijtillsverdt ad se Heimsins Ágæte og Yfirlæte.

## HEILRÆDE.

Ungum er þad allra best, ad ottast Gud sinn Herra, þeim mun Vitskañ veitast mest, og Virding ecke þverra.

Hafdu hverke Háad ne Spott, hupa um Rædu mijna, elska Gud og giordu gott, geym vel Æru þijna.

Foreldrum þijnum þena af Dyggd, þad mun Gæfu veta, varast þeim ad veita Styggd, vilier þu gott Barn heita.

Hupa um þad hellst og fremst, sem Heidurenn mun næra, alldrei sva til Æru-

kemst, sem eckert gott vill læra.
Lærdur er i Lynde gladur, Lof ber hann
hiaa Pioodum, hinn er ei nema hœlfur
Madur, sem hafnar Sidum goodum.
Oft er sa i Ordum nijtur, sem ydkar
Mentan kæra, eñ Pußeñ heimskur þeigia
hlijtur, sem þrioctskast vid ad læra.
Vertu dyggur, trwr og tryggur, Twn-
gu geymdu þijna, vid engann styggur, ne
i Ordum hriggur, athuga Rædu mijna.
Lijtelaatur, liwfur og kaatur, leik þer ei
wr Maata, varast Spiaatur, Hædne,
Hlaatur, heimsker Meñ so laata.
Vijst aavallt þeim Vana hallt, vinn,
lesa, ydia, umfram allt þu ætijd skallt,
elska Gud og bidia.

## Saungvijsa um Catechism: Luth.

Klaar Lutheri Frædeñ srooder, finna
kunna Meñ her sett aa Jslendskt Maal:
Lesed, prijsed, Lijder gooder, læred, heyred,
giored rett og sedied Saal: Liwfra Giafa
nidoted, neyted, Nædar Tijder kaunest
vid: Drottens lijtelaater leited, Lotning
veited, bidied Gud um goodañ Frid.

Bæde

Bædi medur Muñi og Peña, mest a sijdsta Allt ar kolldum Tijma og Stad, Mann vel sviñir kuña kenna, koma Hemiskylldug Giolld, ef forsmaar þad, Ord id D:jrdar Dandum prijdum, dyggvat leggium Packer moot, þeim er Sooma Sædum frijdum, sæidu tijdum: Sprettur gott af goodri Root.

Christiñs Mañs Athæfi.

Serhvad hefur sijna Tijd, so er ad blæa og grata, Hoof er best ad hafa a ollum Mata.

Nu eg þad i Frædi hreinu, froodir Meñ sem toludu uñ, ecki skedur allt i einu, imsum skiftir Tijmunum, a stodugu ecki steudur neinu stundleg Sorg og Luckann blijd. Serhvad hefr sijna Tijd. Eins fyrir Manni og Menia-Reinu, margt kann a ad biaata. Hoof er best ad hafa a ollum Maata.

Þess attu med Greind ad gæta, gangi þer vel med settann Hag, Þu kant oduru mæske mæta, a Morgun, helldur enn

var i Dag, tvent hefur til ad gledia og græta, Guddooms Maktar Hondiñ þiid. S. h. s. T. Tiimir aungum þess ad þræta, þad er auþrædiñ Gæta. H. e. b. a. h. æ.

Tregast ei þa ervidt veitir, einhvorn Tijma Sorgiñ Dvijn, so Natturann sialf þvi breitir, Sool. m eftir Regnid skijn, Gud þeim ollum Huggun heitir, her sem lijda Forlog strijd. S. h. s. T. Til Ordvæntingar þig ei þreitir, þo þu megir græta. H. e.

Vertu hoogvær þa vel þer geingur, so Verolldiñ þig blecki siist, æ Augabragdi allt forgeingur, Audnu-Laan, þa Hioolid sniist, Velgeingniñar stockur Streingur, stundum miñst þa varir Lijd. s. h. s. T. Hindra jafnañ hoskur Dreingur, Holldid sig ad staata. H. e. b. ad h. æ. g. M.

Gudi er best ad trwa, treista, og taka þvi vel ad Hondum ber, ver skulum ecki frekt þess freista, ad filgia þvi sem Holldid ler, Gudhrædsluñar nærir Neista, Nadiñ Drottiñs Gædskuþijd. S. h. s. T. Sæ oss hefur af Lostum leyst, hañ leidi hrygg-

þa og kæta, Hoof er best ad hafa m.o.M.

## Vijsa.

Audtrwa þu alldrei sert, ecki tala um Hug þiñ þvert; þad mæ kalla hygg-ins Hætt, ad heyra margt eñ skrafa sætt; tak þitt æ i Tijma Raad; tookst, þo ei se Lundiñ bread; Vin þiñ skalltu velia þer, sem vitur og þar med tryggur er.

## Nockur Erende.

### OF og VAN.

Eitt er vid OFF hætt, ef Augun lijta Gull-Baug, ef Hondiñ og Hugar-Lund, hallda uppæ sitt Valld, hittist varla Hoof rett, þa hlaupid er i Gum-Kaup, gelldur þess galid Holld, ad Glisi verdur oft Slis.

Hitt er VAN oft hætt, ad una ei vid lijtinn Mun; egna til sijn Ogagn, og Eyrid Gulli virda meir, slisiñ þikir Lann-laus, þa lijdur hañ sitt egid Strijd, Rijkum oft i Raun rak, Ræktarleisid fætækt.

GOTT. JLLT.

Gott

GOTT er ad geyma sitt, og geta proof- ad rett Hoof, vera ör og vel spar, og veita aungum Naungsleit, dælt þikir eigid allt, Ondvegis i siemlfs Hond, diarft hver af skistum Skerf, skioota siñur Hugboot.

JLLT er ad sioa Sullt, a sijnum, þa Braud dvijn, Letiñ vijst ef wt aat, aadur gefid Forræd, lijka þikir lioott Ok, ad, laata wt fyrir Dryckiu-Staat, endilega er leid Lund, þa laungar eirn a Hwsgang.

GOTT er ad greina satt, og gefa Piaadum heil Raad, skamta nidur Skemt þad, er skedur ecki Spott med, Hollustu Hond full, hærstri gengr Dyggd nærst, unna þeim sem a Mann, eina prijsa eg þa Grein.

JLLT er a oheillt, ad eggia þañ eg rædlegg, Lastanna er Ligd vest, þo Lijdir virdi Gaman-Smijd: kæfir Gledi krankt Lijf, kastar Heillum Bak-Last, Dreissid mæler dregur Hlass, af Dyggdalausri Otriggd.

GOTT er ad geima Saatt, i Gudi hafa Fognud, þola bædi og þreya vel, þeckia siñ

egiñ

eginn Fleck, Heilsa og Hond friáls, heitir besta þad eg veit, Lijtilætis Lund kæt, kijka er halldinn Dyggd rijk.

ILLT er Natur ostillt, ottaleg mun Hugar-Soott, þwingt eg helld ad þola rœngt, Piœning giorir Forsmœan; vonda kalla eg Viel-Synd, Vœmi kemur Spott fram, Plœga mun og Pijsl nœog, ad pijnast fyrir Verk sijn.

## Ur Latinu Utlagt.

Miñstu ad gæ ef Hesd þijn er hæ, ad halldir hid retta;
Vel þo um sia, hvorn villtu forsmæ, eda Virdingu sletta.
Luckañ miøg-dœ, kañ lœdast þer fræ, þad lœt þig ei pretta,
Þikistu sœ, so þeink þar uppæ, ad þu megir detta.

## Eñ ur Latinu wtlagt.

Stund er su seinasta ill og Ohreinasta, ofs ber ad vaka.
Reiknast sem Okomiñ, rettlœti Doomarinn, Reikning ad taka.

Okom-

Okominn, Okominn, ad afmœa Rangg-
indinn, enn Josnudinn krijna.
Umbuna Rettindinn, reka burt Ill-Lynd-
inn, Rijkid sitt liena.

## Mismunur Vetrar og Sumars.

Ton, O JEsu Edla-Bloomi, etc.

KOminn er Veturinn kalldi, kastar ad margri Hrijd, af Drottins Vijsdoms Valldi, veslast so Arsins Tijd: sœl geimir Sool Liooma, svol hrumir Kul-hame, Jel-romum fiolsima, firna Orniñ strijd.

Grund frijs eñ Grasid dofnar, Grip-eña vantar Skiool, bersnoggver standa Stofnar, stirnar Lim, Skoogenn kool, smœr Fuglinn hreir Pozli, hver Higle, Dijr ragla, ber Seglfrœ Byr-triglum, blandid Vinda Hiool.

Skorp Frostiñ skemta egi, Skepnann hver ber sig lijtt, Snioor hylr vijda Vegi, villist hvi margur tijdt, Klœdlauser fred-frusu, Fridhreisi Naud kioosa, ad Hwsum Fied flasar, fœlist Kulid strijdt.

Enn þegar Vorar aftur, uppgenanr Sool

Sooliñ ſkær, ollu nijr eblíſt Kraptur, añ-
ad Bragd Loftid fær; kolid hijrnar Follð
forna, fylld Kiarna, Molld ſtirnud, ſijld
meirna, ſiald ornud, Svellenn Fiollum
nær.

Fuglar wr Filſnum hreifaſt, Fied driiſ-
ur Hwſum frœ, Dijrinn uṁ Skooga
dreifaſt, Dag ſaman fiolga þa, Menn
hijraſt, eñ ærinn, Oñ heyriſt grañſærum,
Hlunn-Jootum, Hronn Bœru, hrind-
ir Sundid œ.

Doggind driiſa lætur, Drottinn œ
kalldann Snioo, verkar ſo Milldi niæt-
ur, Molldinn þurr verdur frioo, Glis
Skoogar, Gros haga, Glas fogur Roos
þæga rijs, þegar Rœs drijwga, Raka
Pokann bloo.

Froſtid þo ſargi Grooda, frioofgáſt
ſamt uppœ nij, Frækornſins ſiœ Menn
Siooda, ſijn geyma Bloomſtrinn frij;
Kraft Frooniliwſt lenar, Loft Skinid,
Driſt hreina, gæſt duna, ſvipt Sioon-
um, ſiotnud Vatna-Skij.

Sum-

Sumarsins Bloominu sæll, sijnir oss Drottins Mætt, Vetur þo kalldur kæli, Korn, Jord, Gras, Frævid smætt, Ar Tijdinn wr Sædi, or Sædi hijr leidir, frioor Lijdur, fær Gudi, frijdann Heidur þrætt.

## Um̃ Mañsins fallvallta Lijf.

Ton, Tunga miin af Hiarta hlioodi, etc.

Mannsins stuttur er, eg inni, Andardrættur i Nosunum, snogglega trw eg Lijfid linni, sem Laufid fellur af Grosunum, lijtid Sæalu lijknar hinni, þo liggi Fed i Kosunum.

Eins og Heyid fellt i Flecki, folnar upp i Mwgunum, dofnar Holld þa dettur af Bicki, i doprum Andar Kmygunum, Daudiñ gefur Gaum ad ecki, þo Gootsid liggi i Hrwgunum.

A Auga bragdi einn skedur, Umbreiting a Vistunum, fyrir miwka Sæng fæst Molldar-Bedur, minnstum gior af Listunum, lijtid Sæalu grætta gledur, þo Gullid liggi i Kistunum.

Ver

Ver skulum ecke i Verolld freista, ad voga allt sem diarflegast, illra Gyrnda alinn Neysta, utslockvum sem snarlegast, og sannann Jesum Son Guds treysta, Saalunni er þarflegast.

## Enn Tvø Vers vidlijka Innihallds.

Hvad skal Gotz edur Geingi, Gripir og allskins Audur, Maalid sniallt edur Meingi, þa Madurinn liggur daudur, Aftmenn fara honum aller fraa, er hann þaa sialfur settur i Jord, enn Saalinn fer sem maa.

Eitt maa Ovällt heita, sem alldrei verdur og Bil, þaangad er Lids ad leita, sem Lijkninn aller til; Kriwpum ad Footum Konge þeim, sem bædi er merkur, mikill og sterkur, Maria fæddi i Heim.

## Nijur Tvø Vers.

Ton, Gef eg mig allann Guds mijns Raad, etc.

Ud Naadi nu hvad geingr tregt, geysar Raanglætid helldur frekt, og volltu Hiooli Heimurinn er, hnignandi fer, til

Falls med ollu flijtir ſer.
Oll Manna Hugſun, Hiarta og Gied, hniigur til þeſs ad gyrnaſt Fied, ymeſleg Hegdan örg og lioot, enn ei finnſt Boot, Hefnd mun þvi koma hørd a moot. *

## Viiſa.

Fyrniſt Heimur, ſæ heyrt ſkedur, Frelſarinn Jeſus geymi oſs vel; Hanns Hijngadkoma Guds Børn gleðr, þo græti þar til Sorgar-El, enn þær verda uti øll Ovedur: J Hendur Guds eg chriſtna fel.

### Hexametrum.

Holldid oſkæatt, veit fyrir fram ſæatt, hvad falla mun þægra,
Reidir ſig þræatt, a Megn ſitt og Mæatt, eda Mannordid frægra;
Oſtijrilæatt, þad ætlar ſer hæatt, ad Endingu

* Fyrra Verſid finnſt i einn Exemplari þad 29. og hid ſijdara þad 34. i Pſalminum: Gief eg mig allann Guds mijns Raad, etc. Nÿur 6. Exempl. utilaata þau.

ingu Dægra:
Sa er vid Statt, þo siaist ei bratt,
sem setur þad lægra.

Hexametrum

Olld Odum fyllist, Uggleysinu dær-
lega fyllist.
Slæpa Vegur gyllist, Gyrnd Holldsins
margur adhyllist.

Uñ misiafnt Hamingiu-Laun-
Med Lag, Arid nijtt nu a, etc.

Barna Lund blind fædd, vid Briost-
inn Moodur kwra, Æsku-Stund O-
mædd, fyrir aungu kann ad stiwra; Enn
þad Mund algiædd, er Manñsins Natt-
ura, skamt mun til Skwra.

Enn ef kemst her hæatt, og hyggur sær
til Kæti, a þær skiemst Addratt, eitthvad
þad Mann græti, Hiartad kremst, hvarf
brætt, hellst er þookti Mæti, allt Eftirlæti.

Glijann reis græa hart, Snap þa Stor-
mur hryllti, Olldu Geis grim̄t margt,
glæstum Reida spillti, þessi eys, enn snart,
önnur Rwmid fyllti, og Batnum hillti.

Skier;

Skier; Ad liær, Skin Sool, skijrt ad Morgun Kosti, um̃ adra græx, Sykt Bool, Yriu Daggar-Rosti, sijdann slær Heims-Hiool, hvestur Gustar Losti, med seikna Frosti.

Pvi er allt i Heim, ef so mætti greina, nærsta vallt, pad peim, þykir vijst, er reyna, a Hlidum hallt hœlft Tveim, Hioolid Luckn-Teina, fer Braut ei beina.

Um̃ Veralldarinnar Flættskap.

Svo sem Gler, sijnest mer, Sælann hœl Veralldar, hvikul her, hvad sijst þer? Hvijtt ad ofañ falldar, under ber, Ef þu sier, Illsku Brwnir kalldar, og Tæli tialldar.

Margann hœtt, hun þrœtt, hoof i Yfirlæti, Luckann kaat, liek dœtt, litla Stund med Kæti, stood vid Gœtt, Fliood flœtt, Fellde þann wr Sæti, fra mestu Mæte.

Alits frijd, fræg blijd, fyrst hun mor-gum reyneſt, Heimskum Lijd Hæg þijd, gitt þo undir meinist, slœnginn strijd, flæg-

Simijd

Snnid, flootting rett so greineft, bradt burtu leyneft.

Luckann hail, Heims-Prial, Holld og Blooded kata, Flærdar-Bal, frekt Brial, fram wr rettum Mata; pad er Taal, svijkur Saal, um sijder kann ad lata, sart suma grata.

Vid Leigu-Bool, Laans Stool, lijkist Heimsins Sæla, okyrrt Hiool, Ragl, Rool, Reikiar Dupt og Svæla, glislegt Hool, Gabb, Tool, ginner Mamons Præla: hver ma þvi hæla?

Daudleg Mynd, Mankynd, Molldar Leyrenn veikur, Beina Grind, blæsinn Vind, Boola Vatns, og Reikur, hlad-inn Synd, laus-lynd, sem loge skraf-hurr Kveikur, a Prædé Lijfleikur.

Hollded biart, ber Skart, bæde Gull og Klæde, en þu vart, ofparst, adur roted Sæde, verdur snárt, veik Art, vesællt Madka Fæde, sem oll endar Gæde.

Volsed her, vallt er, ef villtu rett ad grunda, Lijfed þver, fliott fer, Frækten

oll til Hunda', Kistu Hrér, Kropp bér, kalldan wt med Skunda, oft innann Stundar.

Illum Sid, sien vid, sañra leita Dæda; Hoogværrt Lid, fær Frid, sñ flijr til Drottinns Ræda, stunda Grid, Gud bid, ad geyma Sælu þiæda: Gæt goodra Ræda.

## Heims Ofoome.

Med Lag, sem, Aired nijtt nu æ, etc.

Hverfa Happs Tijmar, Hofud sundrlar Kvilla, Gloffa Gnaps Brijmar, gét eg Siooner villa, Svipañ Straffs skijmar, Stiarna Spæidoom fylla; Athæfed illa!

O! ad Tær ækof, af Augum jafnañ riñe, eda Naar i Grof, inde ad Hvijlu siñe, Synda sær Upphof, Sælu Ogna miñe, ef kañast vid kynne.

Agyrnd græ ædde, yfir Fiolleñ hæu, Otrw flæ flædde, æ Froons Hælsana smæu, Prioostañ þræ þrædde, þvi mær blinder sæu, þar Lægdet lægu.

Vitsku

Vitsku Vakt sofnar, vel Alldar Viallañ
klijnger, Drottna Makt dofnar, Dala
Kluckañ hrijnger, stoorre Prakt stofnar,
sa Stimpla-Maalmeñ pijnger, þvi margt
ad þijnger.

Von er þvi, Von er, verde Gud ad hef-
na, Hætta nij nu her, nærre vill oss stefna,
fræ eg sñij, siær fer, framar meir ad nefna,
Rok Rauna Efna.

## Eñ Verolldiñe tildrucked.

Vond ertu Verolld, med Viela-Brog-
deñ margfolld, þeir sa stalldann good
Giolld, er gefa sig a þijn Holld; þu rister
einum Spott-Spiolld, og spiear hañ upp
i Hæ-Volld, Mæta, Flærd og Mein
kolld, markad er a þiñ Skiolld.

Þeim sem þu ert bræd blijd, bijr þar
under Hel-Strijd, hverge muntu heil-
smijd, þo halldeñ værer dæfrijd, Vondsku
þiñar vex Hrild, vefnande fer ætijd, sa þitt
varast skart Nijd, fælañ tel eg hañ Lijd.

Hversu fanijt ad Fordilldeñ se.
Folnar Folld, fyrnest allt og

mædest, Holld er Molld, hveriu sem þad klædest.

Ull er Raun, þad sannast vijda, svikul og vollt er Heimsins Blijda, i Spakmælum lærdra Lijda, lenge þar um rædest; Holld er Molld, hvoriu sem þad klædest.

Hugsa eg oft i Hyggiu Brunne, af hveriu Mañ sig stæra kuñe, þo er þad nærst i Náttuℏuñe, ad nakeñ serhver sædest, H. e. M. h. s. þ. k.

Fordilld öll hun fijkr wr Huga, þa Feigdeñ Mañ vill yfirbuga, listed Stackar dockvu duga, þa Daudeñ iñ ad lædest. H. e. M.

Hvad gyllder þo rijkur rambe, reigest vid og stande a Þambe, engeñ er so digur i Drambe, ad Daudeñ nockurn hrædest. H. e. M. h. s. þ. k.

Þo a þer skijne Utlendsk Dragtenn, Yfirlætes og Vitsku Prakteñ, trw þu mer ad mijnkar Maktenn, af Modkunum þa snædist. H. e. M. h. s. þ. k.

Adur eñ (kann ske) wte er Nottenn, af þeim tekur ad draga Prootteñ, kemur þa

bæde

bæde Kveiſa og Sooten, Kvillen ſaar ei
græðeſt, H. e. M. h. ſ. þ. k.

Þo ſtundum gaange þeir Stockum bwner, at Stijgvielum ſeu Sporar ſnwner, wt vid Grafar Backans Brwner, bein Leid ollum þræðeſt. H. e. M. h. ſ. þ. k.

Silfur-Por og dijrer Dwkar, danſkur Kjooll og Treyur miwkar, ad Saluñe lijted ſeinna hiwkar, þa Sorgar-Hiteñ glæðeſt. H. e. M. h. ſ. þ. k.

Þo hyggeñ ſert og hæg-lundadur, hafdu Raad mijn, chriſteñ Madur, her er ſo valltur Heimſins Stadur, hiñ ſæſi gott er mæðeſt, Holld er Molld, hveriu ſ. þ. k.

## Um Agyrnd og Aura-Safn.

Mig angrar margt hvad Mañs Athæfed, hvernig Heime er hattad, þad heſe eg vel ſied.

Hilldeñ odum ſpilleſt, Oſid margur hylliſt, af rettum Veige villeſt, Von þo Hiartad kvilleſt, Heimur af Hreckium fylliſt, hægt mun ecke dylia þad, mig angrar margt hvad: Synd og Goþed gylleſt, ſo

gete Meñ eignast Fed, hvorsu Heime er
hættad þad hefe eg vel sied.

Upphaf allra Klækia, er Agyrnd fast ad
rækia, Aura-Safned sækia, sitt fra hver-
ium krækia, Log med Lymsku flækia, Lags-
meñ sijna mest hun bad: Mig mangrar
margt hvad: Osiund 'og Offtækia af þoi
vaxa ried, h. H.e.h. þ. h.e..v. s.

Hvar sem ad Hws-Rwm tekur, Heim-
sku og Blindleik vekur, Blessan i burtu re-
kur, bweñ er Skadenn frekur, Triggd og
Hoogværd hrekur, heimtest Fals i þeirra
Stad, m.m. m. h. Illu sa mun selldur,
sem slijku umgeingst med, h.H.e.h.þ.h

Hun let Hrecke driwga, hijngad i Land-
ed fliwga, volada kañ ad kwga, Kraft
vr Beinum siwga, fagra Mamons
Mwga, margur sijna Blessan kvad, m.m.
m.h. Seims er sofnud Hirwga, Sealenn
logd i Ved, h. H. e. h, þ. h.e.v.s.

Aumt er yfir ad klaga, er þad hvers
Mañs Saga, Setning Lands og Laga,
lata Pening naga, Mwtr Maleñ draga,

Mein-

meinlaus fellur opt fyrer þad,m. œ. m. h. Vijst um vora Daga, veit eg ad þvilijkt hefur sked. Hvernig Heime er h.þ.h.e.v.s.

Flestar Dygder falla, finnst Kærleikur valla, Sannleik hygg eg halla, hvornar Mann-Dœd snialla, Trw er farenn til Fialla, sær nu ecke i Bygdum Stad,m. œ.m.h. Agyrnd nærsta alla, œ annad fellt er Kned.h H. e.h.þ.h.e.v.s.

Mamon Maktar snaudur, mieg er Hiœlpar traudur, burt er Brœlæd og Audur, þa Bwkurenn ligg daudur, Leyrenn rotast raudur, Rijkes-Kroppnum utan ad,m.œ.m. h. Fæst fyrer Fremd og Haudur fœnijtt Molldar-Bed, h.H.e.h.þ.h.e.v.

Vite Virdar og Kvende, Von er ad Heimurenn ende, siœ til ad Sœlenn lende, um sijder i Drottens Hende, oft þad Esued kende, einn sœ þessa Vijsu kvad, m. œ. m. h. Paunkuin þar til rende, þvi ber sturlad Ged; Hvernig Heime er hœttad, þad hefe eg vel sied.

Oflœtunga Lijsing.

Helms af Keim, hygg eg nockud tiña, hvad margur helldur miked af ser, misjafnt þo ad reineſt her, þad er Madur þo hañ lœte miña.

Margt bijr ſtundum mer i Siñe, Menn þegar ad ſtollta ſie, og volſa miked i Verolldinne, eñ vita hverke A ne B, ſijdur þo i Samvitſkunne, ſialfa ſkiniar þad þeim ber, þo margur hallde miked af ſer, ſleſta ad einum ber þa Bruñe, er Brialid uppa ſiña, þad er Madr þo hñ lœte miña.

Margur bleſſaſt Madur a Lœde, af Myſkun Guds og Veralldar Aud, hina adra Þrauteñ þiade, ſem þverra nœde daglegt Braud, þridie Hoopur þa forſmade, þeinkte hverke a Deyd ne Kiør, m.h. m. af ſ. Ad þvi ſeirna ecke gæde, ad Efeñ munde linna, þad e.M.þ.h.l.m.

Þegar þeir fara Øls med Ædur (Yfermeñ ſtundum þetta ſker), Skrum ad tala og ſkiemdar=Rædur, Skemtan þeirra þvilijk er, uñ Elldſins þeinka ecke Glædur, ſem Ogudlegum Hefnder lier, m h. m.

h. m. af ser. Gætum ad þvi gooder Brædur, Gud mun vitia siña, þ. e. M. þo h. læte minna.

Kuñe þer ad mæta Madur, miog velbwenn sier þu hann, heidarlega handteradur, hverge sæstu þvilijkañ, hañs er allur Giarda-Gladur, glooande med Orma-Skier, m. h. m. af s. Einnig siælfur alreimadur, upp med Bondum Tvinna, þad e. M. þo h. l. m.

Bædum Hendum breitta Handska, Buxur fernar klæddur æ, med Knappa Treyu og Kiooleñ Franska, Klædeñ trwe eg hylie sæ, siest uñ Hælseñ Silked Danska, Svardar Heimdals lagdur Der, m. h. m. af s. Med Stigviel bæde og Spora Spanska, speñer wt Kælfa stiña, þ. er M. þo h. l. m.

Nw-Kragañ med Rembe-Læte, reyra þeir uñ siñ digra Hæls, mæske sumer Meñ þess gæte, hañ munde ecke betur eñ friæls, æ þeim eru halldeñ mestu Mæte, sem misjafnt kvisa þar og her, m. h. m. a. s.

Drembeinn rambar i sijnu Sæte, ad soñu kañ ei hlinna, þ. e. M. þo h. l. m.

Hvared ofañ a Herdar bustar, her med Kampa og Skegged sijdt, Fis af Kotum dregur og dustar, med dævænt Bellte og Hand-Gull nijtt, þeñañ Lands-sins þenker Fursta, Þiodeñ hver sem næ-læger, m. h. m. af s. Slijkañ skyllde eg re-ikna Rusta, ef reynde hañ nockur hinna, þ. e. M. þo h. l. m.

Helldur enn ege Hnacka-kertur, Hond-um stijngur Miadmer a, nockud lijka Na-sa-spertur, Reyd mæ þykia slijkt ad sia, sa mun þykia ad Skyne skiertur, skrumar uñ froomañ Hiorfa Grier, m. h. m. af s. Af Otrwleika underfergtur, eda Brogd-um Hvinna, þ. e. M. þo h. l. m.

J bæd unu Vosum glimur Giallded; gylltur Hnijfar og Tobaks-Doos, þeir ætla ser mune vera i Vallde, Verollden oll og heñar Lioos; sitia i hvijtu Silke Fiallde, Sorg þeim engeñ nærre ser, m. h. m. af s. Fyrer Dyrunum stendur Dauð-

inn

inn kallde, Dreingenn hyggst ad fiña, þ. e. M. þo h. l. minna.

Eg a nooga upp til Sveita, Aura, seger hañ, þar og þar, Smiøreñ, Krof og Katla neita, i Kistum Silfur her og hvar, Uxa, Saude og Feaka feita, fæ Hwskenn þaa af mer, marg. h. m. af s. Eg þarf ei efter Laane ad leita, hiaa lokum Bwdar-Slinna; þ. er M. þ h. l. m.

Ef orfaatækur ad hønum kemur, Aud-ar-Lundur Vitsku-diijr, sem ætijd sijna Twngu temur, a Tignar-Hoot og Mæal-inn skijr, og miklu fleyre Menter fremur, Mañ-Vits goodur Naams um Skier, m.h. m. af s. Hinn þaa hverge nidre nem-ur, ef nockurt Svar skal inna, þ.e.M: þo h. l. minna.

Ef spyr þu hañ ad einu Orde, upp ad hressa Geded þitt, se þad nockur Saalar Forde, Samvitskunne ad auka friitt, þaa er lijkt sem Skolleñ skorde, Skilning hañs og Mæñis-Kier, m.h.m.af s. Hañ leitade sijst ad Lijssins Borde, um Leingd Lijf-

Daga sinna, þ.e.M.þ.h.l. m.
Adur eñ (kañske) wte er Nootteñ, iñañ lijtels Tijma þaa, Dauda kemur; saarleg Soottenn, Sorgar-Eled þaa vid braa, Samvitskuñar þvijngar Proottteñ, þreingier, saerer, nagar, sker, margur h. m. af s. Ecke er haegur undañ-Flootteñ, ef Orku bilar stinna, þ.e.M.þ.h.l.m.
Þaa er horfed Stolts og Staated, sturlast Siñe og Hiarta-Sed, stodar ei þo gete graated, Guds ef ecke er Andeñ med, þaa vill keyra i Prauta Maatid, Pioosureñ gamle Lucifer, m. h. m. af s. Villde hann hafa af Lostum laated, um Leingd Daganna sinna, þad er M. þ. h. l. m.
Reide Guds ad ofañ aeder, ostodvanleg, gaetum þess, Satan klagar, Syndeñ braeder, Samvitskañ er miog ohress; Ara Fiollden Elldenn glaeder, og uppsperrer Sioonar-Gler, þvi margur h.m. af ser; Hvert skal flija? Hvad þa graeder? Hver kañ Boot aa vinna? þad ser betur þo þ.l.m.
Aftur vil eg mer ansa sialfur: Hins

anime

mi hvorgi flija kann, þo Heimsins leiti um̄ allar Alfur, aungvann finnur Hiaalpar-Mann, se hann þaa sem Kusi eda Kaaifur, ad kalla a þann sem Biargir lier, margur helld. m. af ser; Ecke er þetta Orda-Gi-aalfur, þad athugi Þioodinn svinna, þad ser betur þo þeir letu minna.

Eg er sekur i øllu þessu, og ødru fleiru Þusundfalldt, enn er þo saimt med Hiarta hressu, þvi Herrann Jesus grædđi þad allt; Hann keypti mig fraa Kvalanna Pressu, og kostadi þar til sialfum ser, so halldi eg minna af sialfum mer; Set eg upp mijna Sigur-Messu, er Satan kan̄ ei vinna, þad ser betur þo þeir laati miña.

Vertu mer til hægre Handar, Hiart-kæraſti Jesu minn, ad burtdrijfist illir Andar, ofann i nedsta Bwstad sinn; Svik, er Dioſull saman̄ blandar, setiest han̄s i Kyrcka-Kier, m. h. m. af ser; Einginn mer þaa Eymdinn grandar, ef eg þig maa fiña, þad ser betur þo þeir letu minna.

Su Lijtilætis Rootin̄ retta, af Nøkum

goodum koninn er, hiaa Matthæo ver megum frietta, Meals-Grein þa sem stendur hér, i Ellefta er tiaad þetta, einka Raad þau nijtum ver, m. h. m. af s. Angri þwngu af vill letta, ef þeim giorum sinna, þ. f. b. þo þ. l. m.

I Guds Nafni allir samann, ad ós gætum fyrr og síjd, her er ecki a Gangi Gaman, geoda mísjum ecki Tijd, eñ hofum Jesum fyrir framann, Freisting þa ad Hondum ber, m. h. m. af s. Sig venie hvor a Trygdir tamánn, Teal-laust honum sinna; Þ. f. b. þo þ. l. m.

Eg fraatek alla frooma Sveina, Foolkid Gott og Heidurs Menn, sem ottast Gud og elska hanns hreina, Ordid, Trw og Sannleikinn, veri hann þeirra Vernd alleina, og volldugt Skiool i Rauna-Hver, þeir munu hallda minna af ser; Til hinna annara Manna eg mæla, sem umsjafnlega sig kiña, þ. f. b. þ. þ. l. m.

Bid eg Gæda bijdar Broodir, þyckiast ecki Kvædid vid, helldur villdi Heidurs-

Broodir, blijda froodum Ræda=Sid, Vitsku=hostir, gladir goodir, gleymi slæmu; Tijminn hver! Margur helldur miked af ser; Forum dijrar Fridar Sloodir, enn fordunst Giördir hiuna, sem lærdu offsinnt ad læta nockud minna.

## Flærdar=Sena.

Ton, Ad ydka Gott med Ærn, etc.

Annars Eyrindi rekur, Ulfur, og laungum sanast þad, læst margur Lofords frekur, lijtt verdur wr þa herdt er ad; Medann slær, Ord vid Eyra, er þer kær, Vinur ad heyra, sertu fiær, so er þad ecki meira.

Slijkt er Hygginði halldinn, Hofdingskapur og Mentin prwd, Verolldin Falsi falldinn, foodrar sinn Kiool med Skolla=Hwd, lærd er æ, Limsku Beglur, leynt ser hiæ, saun þær Reglur, sem Kotnur sæ, kreppir ad hvassar Reglur.

Oft er fagurt i Eyra, Alþijdu=Lof af Hræsni veitt, hinum er æ þad [illegible], Heimur pikir sem Kaalfskinn eitt; Augunn

agreid

greid, hlæa og hlacka, hroosa um̃ leid, bidia og backa, hwiñ er Sneid, þa snwa þeir vid þer Hnacka.

Heimskur er sæ sem helldur, hvors Mañs Loford sein fullgiort se, einfalldur oft þess gelldur, Alvoru meinar, þad hinum er Spe, Trigda-Giolld!, Tæls med Korni, tempraft kolld, nema vidsporni, Vinur i Kvolld, enn velar þig strax ad Morgni.

Heimurinn Hreckia-fulli, Handverk þetta mest brwkar nw, ad fegra Eyr med Gulli, wtgeingur honum Myntinn sw, Orda-Glens, ei þarf kaupa, allir lens, nu þad hlaupa, Kossa-Flens, kallsa liwga og raupa.

Sæ hefur best wr Vijtum, sem bwid getur ad sijnu einn, frjals af Lymskunnar Lijtum, lifir og deyr so Hiarta-hreinn: Trigdum vijst, Viel nu farga, Verolld snijst, hvor vill biarga? Ræd er sijst, ad reida sig uppæ marga.

Alldar Hættur.

med

med stuttri Utskijringu.

1.

Adur a Tijdum, var Tijdska hia Lijdum, so Triggordir kendu, fra Barndoomi blijdum, med fremdarhag frijdum, ad Frægdum ser vendu, af Strengboga strijdum, i (1) Haars Elldar Hrijdum, þeir Herskeitin sendu, eda a Mar vijdum, Skervallar (2) Skijdum, til Skemtunar rendu.

Notæ.

1. HAR, Odin; Hans Elldur, Sverd. Þess Elldar Hrijdir, Bardagar. (2) SKERVOLLUR, Sioor; þess Vallar-Skijd, Skip.

2. Manndoomr mundi, þar Sveinar a Sundi, sooktust af Afli, Einn sat i Lundi, hia litfogru Sprundi, og lek ser ad Tafli: Hinn bar vid undi, sem hertt Knottur hrundi, eda Handsaxa (1) Kafli, Lof þeim ad dundi, sem Frægd bar af Fundi, med [2] Fann-Deigul Skafli.

1 KAFLI, þad um var halldid Hondinni. (2) Deigull eda DIJGULL, er Elld-Panna, Dijgulsins eda Deiglunnar FANN-SKAFL er Gullid.

Versmk-

3. (1) Verfœkum vondum, med Bifroknum (2) Brondum, þeir bægdu fra Lœdi; Byr saung i Bondum, a (3) Brim-vallar Grondum, þa beittu vid Grœdi, Geir rumdi i Rondum, þar rijk Piood i Londum, (4) Rijta Jel hœdi; Gnoott var i Hondum, geck Lid af Strondum, med Gloo-Kraka-Sœdi.

1. VER, Veidistada; Item. Sioor, hañs Fiskar, Skip. (2) BJF, Vatn eda Sioor: BRANdar Bifroknir, Arar. (3) BRJM-VALLAR GRANDar, Bilgiur, Sioor. (4) RJJTar, Skilldir.

4 Y (1) bendum skutu, eñ Almdroosir 2) þutu, i Andfari þuñu; Bur-Steingur brutu, eñ hœtt Skilldir hrutu, þar Herfœkar ruñu; Benfossar flutu, eiñ lœgt hinir lutu, sem lijtt veriast kunnu: Sœmdar Rœd hlutu, og sijns Afla nutu, þeir Siguriñ uñu.

1. Y, Boga. 2, ALMur; Bogi; Hañs. DROOSir, Orvar.

5. Armi hvertveggium, a Lidshandar Leggium, þeir (1) Lioosmundar hreifa; Gladt stein a Seggium, (2) med Geymfolldar Gneggium, so (3) Gramsrunnar

leifa; Digul-farms Dreggium, og [4] Valborgar Veggium, þvi villdu Menn dreifa, i [5] Angantijrs Hreggium, Unda-teins Eggium, Otraudir veifa.

1 MUND Hond, heñar LJOS, Fijngur-Gull. 2. HEGG, Hiarta, Folldar-negg, Steiñ, Geim-negg Folldar, Gimsteiñ. 3. GRAMS-RUNNJ, eda Runi, Hyrdmadur. 4. VAL-BORG er Hond, heñar Veggir, Fijngurnir, a hvoria Meñ villdu dreifa Digul-Farms Dreggium, eda Gullinu. 5. ANGANTIJR, Odins Heiti, vegna miwklatrar Piovnustu er haṅ veitti Konu sinni Frygg. Hanns Hregg, Bardagar.

6. Osæmder bidu, þeir Ofrijki lidu, og ecki sijn hefndu; Diarfir fram ridu, i (1) Dyn-Skoglar Hvidu, og Dreingskapin efndu: [2] Trollmarir Skridu, ad (3) Unda-sylgs Idu, þa Oddaþijng stefndu; lijtt fyrir kvidu, ne Sear þo þeim svidu, til Sorgmæla nefndu.

1. DYN, Dunur, SKAUGul, Valkiria, heñar HVIda, Bardagi. 2. TROLL-Marir, Vargar, MAR, Hestur. 3 UNDA-Sylgur, Blood. Skalldid segir, ad Vargarnir hafi sopit i Bloodsyssa Iduna, hvar Bardagiñ var

gioftur,

attur.

7 Spakvitrir spaadu, þeir giorla margs gaadu, og gloggskignir vaaru, kiænt nidur kliaadu, þa Kijfþrætz hæadu, wr Kappmaalum skaaru, Triggva sig tiaadu, enn Taalid forsmaadu, Þvi trwtt Hiarta baaru: meir gaafu eñ þaadu, og þvi vijda naadu, Þioodræmi klaaru.

8 Ísland maa sanna, þad ætti Vol Maña, þa allt stood i Blooma; Glæ sooktu [1] Hraña, til rijkra Kongs Ranna, vel reinder ad Sooma, [2] Ymu-Leiks Aunã, þeir [3] Ym þordu kaña, sem [4] Yrki forn rooma, [5] Il-Þorns og Taña, Or Ædi Vargaña, þar eiñ beitti Skiooma.

1. GLÆ Hraññar, Gull. 2. Yma, Bardagi. 3. YM, Hliood, Gnij; þad er, þeir gømlu Meñ þordu ad kaña, edur heyra Vopnabraker skede i Bardagans Añrijk. 4. YRKI; eru Kvæde. 5. ILÞORN, Klær. Skaullded seger: Þegar eiñ beitte Skiooma, i Bardaganum, Or Æde Klovña og Taña Vargaña, sem væntu ser Braadar.

9. Þeir baaru Hiaalma, og miog drif-
na

